# Fimmtíu
# Passíu-Sálmar,

qvednir

af

## Hallgrími Péturssyni,

Sóknar-presti til Saurbæar á Hvalfjardar-strönd, frá 1651 til 1674.

---

24. Utgáfa.

Seljast óinnbundnir 48 ß. reidu Silfurs.

---

Videyar Klaustri, 1836.

Prentadir á Forlag Sekret. O. M. Stephensens, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# 1. Sálmur.

Um Kristí útgaungu í Grasgardinn.

Lagid: Minnstú, ó madur! á minn deyd.

Upp, upp, mín sál! og allt mitt géd, upp mitt hjarta og rómur med, hugur og túnga hjálpi til, Herrans pínu eg minnast vil.

2. Sáncti Páll skipar skyldu þá, ad skulum vér allir jørdu á, kunngjøra þá qvøl og dauda deyd, sem Drottinn fyrir oss auma leid.

3. Ljúfann Jesúm til lausnar mér, lángadi þó ad deya hér, mig skyldi' og lysta ad minnast þess, mínum Drottni til þacklætes.

4. Innra mig lokkins ángrid sker, æ! hvad er lítil rækt í mér; Jesús er qvalinn í minn stad, offsjaldan hefi' eg minnst á þad.

5. Sál mín! skodum þá sætu fórn, sem hefir oss vid Gud Drottinn vorn,

forðæmda aptur forlíkað, fögnuður er að hugsa' um það.

6. Hvað stillir betur hjartans böl, enn heilög Drottins pína og qvöl? hvað heptir framar hneixli' og synd, enn Herrans Jesú blóðug mínd?

7. Hvar fær þú betur, sál mín! sjeð, sanna Guðs hjartans ástar-geð, sem faðir gæðskunnar fékk til þín, framar enn hér í Jesú pín?

8. O Jesú! gef þinn anda mér, allt svo verði til dýrðar þér, uppteiknað, súngið, sagt og téð, síðan þess aðrir njóti með.



9. Að liðinni máltíð lofsaunginn, las sínum föður, Jesús minn, síðasta qvöldið, seint það var, súngu með hans lærisveinar.

10. Guðs Sonur sá, sem sannleiks ráð, sjálfur áti á himni og láð, þáði sitt brauð með þackargjörð, þegar hann umgéckst hér á jörð.

11. Þurfamaður ert þú, mín sál! þyggur af Drottni sérhvert mál, fæðu pína og fóstrið allt, fyrir það honum þacka skalt.

12. Illum þræl' er það eilíf smán, ef hann svo þyggur Herrans lán, drambsamlega og dreissar sig; Drottinn geymi frá slíku mig!

13. Eptir þann saung, enn ecki fyrr, útgéck Jesús um húsins dyr, að hans sidvenju er það skéð, til olíu-fjallsins gánga réð.

14. Lausnarans venju lær og haldt, lofa þinn Guð og dýrka skalt, bænarlaus aldrei byrjuð sé, burtför af þínu heimile.

15. Yfirum Kedrons breiðann beck, blessaður þá með sveinum géck; sá læk'r nafn af sorta ber, sýnir það góðann lærdóm mér.

16. Yfir hörmúngar er mín leið, æ meðan varir lífsins skeið; undan géck Jesús, eptir eg, á þann að feta ráuna veg.

17. Horfi eg nú í huga mér, Herra minn Jesú! eptir þér, dásamleg eru dæmin þín, dreg eg þau gjarnan heim til mín.

18. Þú vildir ecki upphlaup hardt, yrði þegar þú fánginn varst, út í grasgardinn géckstu því, gafst þig í manna hendur frí.

19. Af því læri' eg að elska' ei frekt, egið gagn mitt, svo friður og spekt, þess vegna raskist, þér er kjært, þolinmæði og géð hógvært.

20. Sorgandi géckstú sagða leið, særði þinn huga qvøl og neyð; hlæandi glæpa hljóp eg stig, hefur þú qvittað fyrir mig.

21. Vort líf er grasgarðs gánga rétt, grøfin er øllum fyrirsett. Syndugra leið ei leik þér að, lendir hún víst í qvala-stað.

22. Yðrunar-tárin ættu vor, øll hér að væta lífsins spor, gégnum dauðann með gleði og lyst, gaungum vér þá í himna vist.

23. Þá Jesús nú á veginum var, við Postulana hann ræddi þar: henda mundi þá hrøsun fljót; harðlega Pétur þrætti' á mót.

24. Frelsarinn Jesús fyrissér, þá fall og hrøsun er búin mér, hann veit og líka lækníng þá, sem leysa kann mig sorgum frá.

25. Aldrei, qvað Pétur: ætla eg, á þér hneixlast á nockurn veg, þó allir frá þér falli nú. Fullkomin var hans lofan sú.

26. Sú von er bædi vølt og mirk, ad voga freklega á holdsins styrk, án Guds nádar er allt vort traust, óstødugt, veikt og hjálparlaust.

27. Géf mér, Jesú! ad gá ad því, glaskéri ber eg minn féssjód í, vidvørun þína virdi' eg mest, veikleika holdsins sjer þú best.

## 2. Sálmur.

### Um Kristí qvøl í Grasgardinum.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús géck inn í grasgard þann, Gethsemane var nefndur hann; af olíu þrúgum þad auk-nafn bar, olíutréd rétta Herrann var, oleum hjálprædis allra fyrst, af hans lífi þar pressadist.

2. Í aldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesús þad bæta hlaut, aldingards-eikin ó-vert gaf, eymd, synd og daudi kom þar af; í aldingardi ljúft lífsins tréd, lífgunar frjófgun veita réd.

3. Júdas þeckti vel þennann stad, þar hafdi hann lengi umhugsad, helst mundi pláts þad heutugast, Herrann mætti þar

forrádast, svo færstir hefdu' ad segja af því, svik hans lægju svo hylmíng í.

4. Satan hefir og sama lag, situr hann um mig nótt og dag, hyggjandi' ad gleggt hvar hægast er, í hættu og synd ad koma mér; en þó í þeim stad allra mest, sem á eg Gudi' ad þjóna best.

5. Heims 'børnin hafa lyst þá lært, lygd og svikrædi er þeim kjært, fótsporum djøfuls fylgjande, falsrádin draga þó í hlé. Frá hans og þeirra hreckja-stig, Herra Jesú! bevara mig!

6. Opt hafdi Jesús í þann stad, ádur gengid, því veit eg þad, hefir sannlega Herrann minn, hugsad um pínu og dauda sinn, fulltíngis bedid fødurinn þar, svo fengi hann stadist píslirnar.

7. Jurta-gardur er Herrans hér, helgra Guds barna legstader, þegar þú gengur um þennann reit, þín sé til reidu bænin heit, andláts þíns gæt og einnig þá, upprisu daginn minnstú á.

8. Lærisveinana Lausnarinn kjær, lét suma bída nockud fjær, þrjá tók þó med sér hjarta hreinn, hann girntist ecki ad vera einn; sála mín! þar um þenkja skalt, þér til lærdóms þad skédi allt.

9. Guðs kristni er gras-garður hreinn, Guðs Sonar ertú lærisveinn; sit þú hvar sem hann segir þér, sönn hlýðni besta offur er, til krossins ef hann þig kallar þar, kom þú glaðvær án möglunar.

10. Freisting þíng ef þig fellur á, forðastú einn að vera þá; guðhræddra selskap girnstú mest, géfa þeir jafnan ráðin best, huggun er manni mönnum að, miskun Guðs hefir svo tilskickað.

11. Hjartanlega varð harmþrúnginn, Herrann Jesús í þetta sinn, holdið skalf við það feikna fár, flutu í vatni augun klár, sagði grátandi: sál min er, svo allt í dauðann-hrigg í mér.

12. Hartnær stein-snari frá þeim fór, féll strax til jarðar Drottinn vor, flatur sitt blessað andlit á; ógnarleg qvöl hann mæddi þá; hjartað barðist í brjósti heitt, bæði var líf og sálin þreytt.

13. Samvitskan mig nú sjálfan slær, sje eg það gjörla, Jesú kjær! mín synd, mín synd, hún þjáði þig, þetta allt leiðstú fyrir mig, ví! hvað hef' eg aumur þræll, aukið þér mæðu, Drottinn sæll!

14. Mér virðist svo sem mín misgjörð, sé meiri-að þýngd, en himin og jörð, því

Jesús það fæðursins orðið er, sem allt með sínum krapti ber, flatur hlaut þó að falla þar, þá fyrir mig bar hann syndirnar.

**15.** Hjartans gleði og huggun traust, hér gefst þér, sál mín! efalaust, það gjald fyrir mína misgjörð, er meira verðt enn himin og jörð, hans sorg, skjálfti og hjartans pín, hjá Guði er eilíf qvittan mín.

**16.** Fram þegar Jesús fallinn var, fegurstu bæn hann gjörði þar: ábba, faðir, ástkjæri minn! af mér tak þennann kaleikinn, þó svo sem helst þú sjálfur vilt, sagði Jesús, með geðið stillt.

**17.** Urræðin best er auðmjúkt geð, ángrað hjarta og bænin með, hvenær sem kémur hormúng að, hugsa þú, sál mín! vel um það, þolinmæði og meglan þver, meiri refsíngar ablar sér.

**18.** Obljúgur skaltú aldrei neitt, útheimta hvað þú girnist veitt, til holdsins muna hentugt þér, hugsa jafnan: að Drottinn sjer, hvað lífi' og sál til liðs er nú, lángtum betur enn sjálfur þú.

**19.** Eins líkaminn og sálin sé, sannauðmjúkleg í bæninne, álítur Drottinn innra

þitt, ei að síður skal holdið þitt, fyrir Guð með blygðun gánga fram, gjörði svo forðum Abraham.

20. Jesú þín grátleg gras-garðs pín, gleður örþjáða sálu mín, þitt hjartans ángur hjartað mitt, frá hrigð og mæðu gjörði qvitt; því skal míns hjartans hjartaþel, heiðra þig, minn Immanúel!

## 3. Sálmur.

### Um Herrans Krists dauða-stríð.

Með sama lag.

Enn vil eg, sál mín! uppá ný, upphaf taka á máli því: uppstóð Jesús, þó þreyttur sé, þrísvarsinnum frá bæninne, lærisveinarnir sváfu fast, Sáncti Pétur því ávítast.

2. Til og frá géck hann þrisvar þó, þar féckst ei minnsta hvíld né ró; undanfæri því eckért fann, allstaðar Drottins reiði brann, gégnum hold, æðar, blóð og bein, blossi guðlegrar heiptar skein.

3. Himna-ljósið var honum byrgt, helst því af nótt var orðið mirkt, ástvina hugg-un enga fann; allir sváfu um tíma þann;

jørdin var honum óhæg eins; engin féckst bót til þessa meins.

4. Í þessum speigli það sie eg, þeim sem Drottinn er reidur mjøg, hverki verdur til hyggunar, himin, ljós, jørd né skêpnurnar; án Guds nádar er allt um kríng, eymd, mæda, qvøl og fordæmíng.

5. Framar sjest hér hvad fárleg sé, fordæmdra qvøl í helvíte; frá einni plágu til annarar, í ytstu myrkrum þeir ráfa þar; ó! hvad syndin afskapleg er, allt þetta færir hún med sér.

6. Í þridja máta af þessu sjest, þad lærdu, sál mín! allra best, Guds reidi eld og eilíft fár, útslócktu og lægdu Herrans tár, allt honum því til ama var, svo allt verdi þér til huggunar.

7. Hrigdar-sporin þín, Herra minn! í himnaríki mig leida inn; í nætur mirkrum lá neyd á þér, nádar-og dýrdarljós gafst mér; vinir þér enga veittu stod, svo vinskap fengi' eg vid sannann Gud.

8. Þar kom loksins á þeirri tíd, þreytti Jesús vid daudann stríd. Andlát mitt bædi og bana-sótt, blessadist mér þá sømu nótt; daudinn tapadi, Drottinn vann, dýrdlegann sigur gaf mér hann.

9. Ægéck svo daudans ablid rikt, eckért dæmi má finna slíkt: allur líkami Lausnarans, laugadist þá í blódi hans, sá dreirasveitinn dundi á jord, Drottins pína því mjøg var hørd.

10. Í Adams broti var blódskuld gjørd, bølvun leiddi þad yfir jord; Jesú blód hér til jardar hné, jordin aptur svo blessud sé, ávøxtur, gródi og aldin klár, oss verdi ad notum sérhvert ár.

11. Sárkalda daudans sveita-bad, um sídir þá mér kémur ad; sárheiti dreirasveiti þinn, sesi og mýki, Jesú minn! ángistar sveita eilíft bál, aldrei lát snerta mína sál.

12. Mér er svo qvøl þín minnileg, á morgni hverjum þá uppstend eg, fyrst eg stíg nidur fæti' á jord, færi' eg þér hjartans þackargjørd, blód-sveitinn þinn eg bid mér sé, blessan og vernd á jordunne.

13. Hørmúng þá særir huga minn, hef eg mig strax í gras-gard þinn, dropaná tíni' eg dreira þíns, Drottinn! í sjódinn hjarta míns, þad gjald alleina gyldir mest, hjá Gudi fyrir mín afbrot verst.

14. Upphaf alls mesta ófögnuðs, á-klegun strauug og reiði Guðs, bætt er, stíð-stillt og forlíkað, Faðirinn lét sér lynda það, Sonurinn bar hans bræði frí, borg-aðist þræll inn út með því.

15. Þess meir, sem pínan þreyngði að, því innilegar Jesús bað, heilagur Engill himnum frá, Herra sinn kom að styrkja þá. Enn hefir þú hér einn lærdóm, ydka og lær hann, sál mín fróm!

16. Ef hér verður, sem opt kann ské, und-andráttur á hjálpinne, bið, styn, andvarpa æ því meir, sem aukast vilja harmar þeir, föðurlegt hjarta hefir Guð, við hvern, sem líður kross og nauð.

17. Sjá þú að Engill sendur var, Syni Guðs hér til huggunar, þeir góðu andar oss eru nær, alla tíma þá biðjum vær, helst þá lífs enda líður að, Lazari dæmi sýnir það.

18. Heiður, lof, dýrð á himni og jörð, hjartanleg ástar þakkargjörð, Drottinn Jesú! þér sætast sé, súngin af allri kristninni, fyr-ir stríðið þig þjáði frekt, það er vort frelsi æfinlegt.

# 4. Sálmur.

Samtal Kristi víd Lærisveinana.

Lagid: Einn Gud Skapari allra sá.

Postula kjöri Kristur þrjá, í qvølinni sér ad vera hjá, baud þeim vakid og bidjid víst, brádleg freistni svo grandi síst.

2. Strax sem Jesús um stein-snar nær, sté fram lengra (þess gætum vær), allir sofnudu sætt med ró, sjálfur Herrann einn vakti þó.

3. Ádur var svoddan um þig spád, á-sett framkom nú Herrans rád, þú hlautst Guds reidi-þrúgu einn, þreyttur ad troda, Jesús hreinn!

4. Ef eg skal ecki sofa' í synd, svo er náttúran veik og blind, um stein-snar máttú eitt mér þá, aldrei, minn Jesú! víkja frá.

5. Nætur-hvíldin mín náttúrlig, nóg er mér trygg, þá veit eg þig, hjá mér vaka til hjálprædis, hvert qvøld vil eg mér ésta þess.

6. Prísvar Jesús til þeirra fór, þó ad hann mæddi pína stór; hann bad Pétur med hryggri lund, hjá sér vaka um eina stund.

7. En hann sofnadi æ því meir, ei heldur vissu sjálfir þeir, hverju svørudu honum þá. Herrans pínu mjøg jók það á.

8. Mig hefir ljúfur Lausnarinn, leidt inn í nádar grasgard sinn, vakandi svo eg væri hér, vitni skírnin mín um það ber.

9. Ungdóms bernskan, sem vonlegt var, vildi mig ofmjeg svæfa-þar; foreldra hirting hógværlig, hans vegna kom og vakti mig.

10. Aldurinn þá mér ødladist, áfell gjálífis svefninn mest; kénnimenn Drottins komu þrátt, kølludu mig ad vakna brátt.

11. Fullvarin gleymsku svefninn sár, sókti mig heim og vard mjøg dár, dymman heims elsku dróst ad med, dapurt vard mitt til bænar géd.

12. Þá kom Guds anda hræríng hrein, í hjarta mitt inn sá ljóminn skein, en í heimskunni svo eg svaf, sjaldan mig neitt ad slíku gaf.

13. Fárlega var mín fíblskan blind, forlát mér, Jesú! þessa synd, hvar med ad jók eg hørmúng þér, en hefnd og refsíng sjálfum mér.

14. Láttú þó aldrei leidast þér, ljúfi Jesú! ad benda mér, hugsi til mín þitt hjarta mildt, hirtú mig líka, sem þú vilt.

15. Vil eg nú hjártans feginn fá, Frelsari minn! ad vaka þér hjá, andinn til reidu er í stad, ofmjeg holdid forhindrar þad.

16. Jesús unnti med ljúfri lund, Lærisveinunum ad hvíla um stund; því hann vorkénnti þeim og mér, þad eitt mín blessud huggan er.

17. Sídast allra þá sá hann þar, svikara lid fyrir hendi var, baud þeim: vakid og bidjid best, burt er nú værdar tídin mest.

18. Svoddan áminníng, sála mín! sannlega skyldi ná til þín, svo þig ei skadi svefninn vær, svikarinn er þér ecki fjær.

19. Daudinn forrædur fjørid þó, fyrr enn vardi, því margur dó; hann er í nánd þó sjáist síst, sérhvern dag er hans áhlaup víst.

20. Daudinn þá mætir dapur þér, dóminn hefir hann eptir sér, andskotinn bídurbúinn þar, í bálid vill draga sálirnar.

21. Sjá þú vel til, ad svoddan hér, sof-andi komi ecki ad þér, í hreinni ydrum þú hvern dag vak, herskrúda Drottins á þig tak.

22. Bæna má aldrei bresta þig, búin er freisting ýmislig; þá líf og sál er lúid og þjád, lykill er hún ad Drottins nád.

23. Andvana lík til einkis neytt, er ad sjón, heyrn-og máli sneydt, svo er án bæn-ar sálin snaud, sjónlaus, køld, dauf og rétt steindaud.

24. Vaktú, minn Jesú! vaktú' í mér, vaka láttú mig eins í þér, sálin vaki þá sofn-ar líf, sé hún ætíd í þinni hlíf!

## 5. Sálmur.

Um Gydínganna komu í grasgardinn.

Lagid; Heidrum vér Gud af hug' og sál

Medan Jesús þad mæla var, mannfjøldi kom í gardinn þar, Júdas, sá Herra sinn forréd; sveinar Prestanna og stríds-fólk med, skrídbyttur báru, blis og sverd; búnir mjøg út í þessa ferd, um þad eg framar þenk-ja verd.

2. Verdur þad opt þá varir minnst, vo-veifleg hætta búin finnst, ein nótt er ei til

enda trygg, ad því á qvøldin, sál mín! hygg, hvad helst, sem kann ad koma' uppá, kjós Jesúm þér ad vera hjá, skélfíng engin þig skadar þá.

3. En Júdas hafdi ádur sagt, audkénni þeim og svo vid lagt: hvern eg kyssi, handtakid þann, høndlid med gætni og bindid hann. Varastú, sál mín! svik og prett, þó sýnast megi, í hylmíng sett, Drottinn augljóst þad dæmir rétt.

4. En Jesús ádur allt fornam, hvad átti vid hann ad koma fram, þó géck hann sjálfur þeim á mót, þanninn ræddi med kjærleiks hót: ad hverjum leitid híngad þér! hópur íllmennis þanninn tér: Jesum nadverska nefnum vér.

5. Jeg er hann! sagdi Jesús þá, Júdas sjálfur stód flockunum hjá; øblugt var Drottins ordid þad, allir til jardar féllu í stad. Hvad hans óvini hreldi mest, huggar nú mína sálu best, í allri neyd þad auglýsest.

6. Þá eg fell edur hrasa hér, hærstur Drottinn vill reidast mér, þá segir Jesús: eg em hann, sem endurleysti þann syndarann, med mínu blódi og beiskri pín,

brædi, fadir kjær! stilltu þín; eflaust er þad afsøkun mín.

7. Djøfull, synd og samvitskan ill, sálu mína þá qvelja vill, eins segir Jesús: eg er hann, sem afmá þína misgjørd vann, líka sem vindur léttfær ský, lángt feykir burt, og sjást ei því; á mig trú þú, svo ertú frí.

8. Þegar mig særir sótt eda qvøl, sorgleg fátækt og heimsins bøl, jeg veit þú segir: jeg er hann, Jesús, sem lækna vill og kann, audlegd á himnum áttu víst, eymd þín og hrigd í gledi snýst, heiminn sigradi' eg, hrædstú síst.

9. Á dauda-stund og dómsins tíd, Drottinn! þad skal mín huggun blíd, ord þitt er sama: eg er hann, sem inn þig leidi í himnarann, þjón minn skal vera þar eg er; því hefir þú, Jesús! lofad mér, gladur eg þá í fridi fer.

10. Jeg segi á móti: jeg er hann, Jesú! sem þér af hjarta ann, ord þitt lát vera eins vid mig, elska eg, segdú, líka þig, eilíft þad samtal ockar sé, uppbyrjad hér á jørdunne, Amen, eg bid svo skuli ské!

## 6. Sálmur.

*Um Júdasar koss, og Krists fángelsi.*

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

Frelsarinn hvergi flýdi, fjandmenn þá láu senn, Herrann beld þeirra hinn þýdi, þeim leyfdi á fætur enn, hvern helst þeir hugsi' ad finna, hann spyr, (sem ljóst eg gét), jafnt sem fyrr, Júdar inna: Jesúm af Nazareth.

2. Eg em hann, aptur sagdi, annad sinn Jesús hátt. Lærisveinunum lagdi, líknar ord þetta brádt: ef mín ydur lystir leita, þá látid þessa frí. Búinn var hann ad heita, hjálprædis ordi því.

3. Hér af má heyra' og skilja, Herrans vors Jesú makt, ecki gat án hans vilja, á hann neinn hendur lagt. Wid mig þó hatri hreisi, heiptar-menn íllgjarnir, enginn kann, utan hann leyfi, eitt skérda hár á mér.

4. Födurnum hjarta hlýdinn, hann gafst, á þeirra vald, sál mín! því sért óqvídin, sjá þitt óhlýdnis gjald, viljugur vildi' hann bæta, víst er þín skylda' audsjen, ást og audsveipni mæta, áttu ad leggja ígén.

5. Júdas kom fljótt sem kunni, kyssandi Jesúm nú, mælti sláráðum munni: Meistari! sæll vert þú! Herrann hógværðar ríkur, hann sagði: þú, minn vin! með kossi Son mannsins svíkur! Síst mun því hefndin lin.

6. Eva munn eplið eina, aumlega ginnti um sinn, fals = koss því féck að reyna, Frelsari! munnur þinn; blíðmælum djøfuls bægðu, svo bleckist eg ecki' af þeim, heims hrecki líka lægðu, líf mitt og æru geym.

7. Andsjen eru' augum þínum, øll vél og launsvik hér, hritt þeim úr huga mínum, hreint skapa géð í mér, virðstú mig vin þinn kalla, verða lát raum þar á, holds brest og hræsni alla, hindra og rek mér frá.

8. Í hættu' og háska mikinn, hefir mig Satan leidt; ó hvað opt eg verð svikinn! ei gét eg hjá því sneidt, Son mannsins svikum mætti, sannlega uppá það, svikanna háskinn hætti, hjá mér ei finndi stað.

9. Munnur þinn (að eg meina) minnist við Jesúm bert, þá hold og blóð hans hreina, hér fær þú, sál mín! snert. Í Guðs nafni að þér gáðú, gef honum ei koss með vél; í

trú og ydrun þig tjádu, tilbú þitt hjarta vel.

**10.** Þángad þegar ad stundu, þusti íllrædis lid, ljúfasta lamb Guds bundu; lokid var øllum frid, hardsnúnum-reipum reirdu, ránglætis míns hann galdt, Drottinn í dróma keirdu, dofnadi holdid allt.

**11.** Júdar þig, Jesú! strengdu, jeg gaf þar efni til, syndir mínar þér þreyngdu, þess nú eg ydrast vil, glæpa-bønd af mér greidir, og géf mér frelsid þitt, andlegum dofa eydir, sem áfell hjartad mitt.

**12.** Guds Son var gripinn høndum, géfinn svo yrdi' eg frí, hann reirdist hørdum bøndum, hlaut eg miskun af því, fjøtur þúng og fángelsi, frekt lá, minn Herra! á þér, daudans og djøfuls helsi, duttu því laus af mér.

**13.** Bid eg þún bøndin hørdu, bindi nú hvern minn lid, frá alls-kyns glæpa gjørdum, og gøldum heimsins sid, laus og lidugur andi, lífs medan dvelst eg hér, þér sé jafnan þjónandi; þessa bén veittú mér!

# 7. Sálmur.

Um ræðu Sáncti Péturs, og Malchusar eyrasár.

Lagið: Gæðsku Guðs vér prísum.

Lausnarans lærisveinar, þá litu atburð þann, og Júda athafnir einar, allir senn spurðu hann: egum vér ecki' að slá, óvina sveit, með sverði? svo hér ei þýngra verði. Sál mín! hér gjör að gá.

2. Ef þú áforma vildir, eitthvað, sem vandi' er á, þarfleg ráð þyggja skyldir, og þig vel fyrir sjá, af því optlega skér, sá, sem er einn í ráðum, einn mætir skaða bráðum, seint þá að ydrast er.

3. En með því mannleg vitska, í mörgu nær skamt, á allt kann ecki' að gitska, sem er þó vandasamt; kost þann hinn besta kjós; Guðs orð fær sýnt og sannað, hvað sé þér leyft eða bannað, það skal þitt leiðar ljós.

4. Pétur með sverðu sinni, sverð úr slíðrum dró, hans trúi' eg bræðin brinni, og beint í flockinn sló, Malchus hlaut hér af tjón, hann misti hið hægra eyra, högg-ið tók ecki meira, þessi var Biskups þjón.

5. Lausnarinn ljóst nam svara, læri-sveinunum fyrst: látið þessa framfara, frekast að finni lyst, Pétri svo sagði nú: sverðs dauða sá skal sekur, sem sverð án leyfis tekur, sverð slíðra, Símon þú!

6. Meinar þú Faðirinn mildi, mundi ei senda hér, ef eg þess óska vildi, Engla til fylgdar mér, fleir' enn tólf fylkingar? eða mun skyldt eg ecki, ásleuktann kaleik drecki, sem mér þó settur var?

7. Svo mun uppfyllast ega, hvað et í Ritníng tjáð, og síðan sannast mega, hvað sjest fyrir laungu spáð. Svo eptir sermon þann: eyra þjónsins áhrærði, sem áður Pétur særði, læknað' að heilu hann.

8. Sál mín! lærum og sjáum, með sannri hjartans lyst, tvennslags sverðs gloggt við gáum, greina skal þar um fyrst: sverð Drottins Dómarinn ber, sverð egin-hefnd-ar annað, sem øllum verður bannað; það kennir Kristur hér.

9. Bið eg: hér gloggt aðgætir, góð Valdstjórn heiðurlig! saklausann síst þú grætir, né sjálfa meiðir þig, við sverð Guðs

vandlætis, blód skaltú því ei banna, burtsníð þú grein lastanna; merk dæmi Móisis!

10. Þitt sverð, sem þitt er egið, fyrir þína egin sök, skal ei úr skeiðum dregið, skír eru þar til rök, Jesús það bannar bert, honum er skyldt þú hlýðir, hógvær umberir, líðir, það móti þér er gert.

11. Ræn ei Guð sínum rétti, því reiknast hefndin hans, Valdstjórn til verndar setti, víða um bygðir lands, ellegar að því gá: sverð Drottins, sem hér nefnist, sannlega á þér hefnist, tjón þitt tvöfaldast þá.

12. Malchus, sem misti eyra, merkir þá alla frí, sem orð Guðs ecki heyra, ega þó kost á því, heyrn ér þeim hægri sljó, vinstri hlust heilli halda, hád og spélni margfalda, nóg géta numið þó.

13. Skálka-mark mátti falla, Malchus hér fengi rétt; á Guðs óvini alla, einkénni slíkt er sett, orð hans ei akta hér; jeg bið og jafnan segi: Jesú minn! láttú eigi, það merki sjást á mér!

14. En finnur þú hér framar, Frelsarans dæmi best: hörmúngar hættusamar, á

honum láu mest, sitt traust þó setti hann, á Guds Födurs gædsku' ríka, gjör þú þad, sál mín! líka, ef kross þig henda kann.

15. Kvol sína Jesús kallar: kaleik' á-skenktann sér. Kross þinn og eymdir allar, eins máttu nefna hér; því Drottinn drack þér til, fyrir þig þá hann píndist, svo þú, mín sál! ei týndist, gjör honum gjarnan skil.

16. Þú mátt þig þar vid hugga, hann þeckir veikleik manns, um þarftu ecki' ad ugga, ádryckju skamtinn hans, vel þín van-qvædi sjer; hid súrasta drack hann sjálf-ur, sætari' og minni enn hálfur, skérfur er skenktur þér.

17. Heipt mína' og hefndar næmi, hef-ir þú, Jesú! bætt, mér gafst manngædsku dæmi, þá Malchum féckstú grædt; eg þarf og einnig vid, eyrad mitt læknad yrdi, svo ord þitt heyri og virdi. Þýdlega þess eg bid!

18. Hjálpa mér, Herra sæli! ad halda kross-bikar minn, svo mig ei undan mæli, né mögli' um vilja þinn. Eg bid al-mætti þitt, vorkénni minni veiki, ef verda kann eg skeiki, hrestú þá hjartad mitt!

# 8. Sálmur.

## Prédikun Krístí fyrir Gydíngum.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Taladi Jesús tíma þann, til við óvini sína, sem komnir vóru að höndla hann: heyrum þá k.nníng fína.

2, Sem til illvirkja erud þér, útgengnir mig að fánga; ádur gat enginn meinað mér, í musterinu' að gánga.

3. Daglega hef' eg sýnt og sagt, sannleiksins kénníng mæta; enginn gat hendur á mig lagt; ættud nú þess að gæta.

4. Yfir stendur nú ydar tíd, uppfyllt svo ritníng verdi, myrkranna geysar makt-in stríd, Mæla svo Jesús gérdi.

5. Ljúflyndi blessað Lausnarans, líttú hér, sál mín kjæra! sá vill ei dauða synd-ugs manns, svoddan máttú nú læra.

6. Jesús þeim sýndi' í sanni raun, sálar-heill, náð og frelsi, Guds Syni Júdar gal.u' 'í laun, grimd, hatur og, fángelsi.

7. Furda því, sál mín! engin er, ei skalt því dæmi týna, þó veröldin launi vondu þér, velgjörd mjög litla þína.

8. Syndínga dæmi skýnja skalt, skil þig við ódygð slíka, þacklæti fyrir góðgjørð gjaldt, Gudi og mønnum líka.

9. Jeg læt mér þessu jafnframt sagt, Jesú! af ordum þínum, enginn gat hendur á þig lagt, að eginn vilja sínum.

10. Þann takmarkaða tímans púnkt, tilsetti Fadirinn mildi, nær það ánaudar okið þúngt, yfir þig gánga skyldi.

11. Eins upphaf líka' og endíng með, allrar hørmúngar minnar, Fadir himneski', er fyrirsjeð, í forsjón miskunar þinnar.

12. Þessi nú tíminn ydar er, óvinum Jesús sagði; Herrans eg þetta máltak mér, í minni og hjarta lagdi.

13. Nú stendur yfir nádar-tíð, naudsyn er þess eg gætti, lídur mig Drottins bidlund blíð, brot mín svo qvittast mætti.

14. Ef eg þá tíð, sem Gud mér gaf, gálaus forsóma nædi, Drottins tími þá tekur af, tvímælin øll í brædi.

15. Því lengur, sem hans bidlund blíð, bedid forgéfins hefir, þess hardari mun heiptin stríð, hefndar þá Drottinn krefur.

16. Guds vegna ad þér gæt, mín sál! glæpum ei lengur safna, gjørum ydrun, því meir enn mál, mun vera synd ad hafna.

17. Í dag vid síulum skipta um skjótt, skal synd á slétta rekin; hverr veit nema sé nú í nótt, nádin í burtu tekin?

18. Talar Jesús um mirkra makt, merkid þad Valdsljórnendur! ydur skal nú í eyra sagt: umdæmid heims tæpt stendur.

19. Ljósid mirkrin burt leidir frí, med ljóma birtu sinnar, varast' ad skýla skálkum því, í skugga maktar þinnar.

20. Minnstú ad mirkra maktin þver, þá mirkur daudans skalt kanna, í ytstu mirkrum enginn sjer, adgreining hefdíngjanna.

21. Mirkri léttari' er maktin þín, minst þess fyrir þinn dauda, þá Drottins hátignar dýrdin skín, hún dæmir eins ríka og snauda.

22. Fyrst makt heims er vid mirkur líkt, mín sál! haldt þér í stilli, varastú þig ad reida ríkt, á ríkis-manna hylli.

23. Drottinn Jesú! þú líffins ljós, lýstú valdsljórnar-mønnum, svo þeir, sem ráda yfir oss, eblist ad dygdum sønnum.

24. Jesú! þín kalda qvala-stund, qvalatíð af mér svipti, Guðs barna gafst mér gleði-fund, góð vóru þau umskipti.

25. Myrkranna þreyngði maktin þér, mig svo leysir úr vanda; qvalanna ytstu myrkur mér, mega því aldrei granda.

## 9. Sálmur.

### Um flótta Lærisveinanna.

Lagið: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þá lærisveinarnir sáu þar, sinn Herra gripinn höndum, og hann af fólki verstu var, vægðarlaust reirður böndum, allir senn honum flýðu frá, forlétu Drottinn hreinann, í háska einann. Að svoddan skulum við, sál mín! gá, sjáum hér lærdóm beinann.

2. Án Drottins ráða er aðstoð manns, í engu minnsta gyldi, fánýtt reyniſt opt fylgið hans, er frekast hjálpa skyldi; hverr einn vill forða sjálfum sér, ef sýnist háski búinn, að hendi snúinn, far því varlega' að fallvölt er, frænda og vina trúin.

3. Í sama máta sjer þú hér, sál mín! í speigli einum, að hriggilegár sé háttað

þér, enn Herrans lærisveinum, þeir høfdu leysi Lausnarans, lísi ad forda sínu, frá sárri pínu, uandugir mistu náviſt hans; nú gæt ad ráði þínu.

4. Hvad opt, Jesú! þér flúdi eg frá, frekt á mót vilja þínum, þá glæpa veginn gékk eg á, girndum fylgjandi mínum? forskuldad hefd' eg fyrir þad, flóttamadur ad heita, til heljar reita, en þú virdtist mér aumum ad, aptur í-miskun leita.

5. Einn varstú, Jesú! eptir því, í óvina látinn høndum, einn svo eg væri aldrei í, eymd og freistíngum vøndum, allir forlétu einann þig, allt svo mig hugga kynni, í mannraun minni. Eg bid: Drottinn! lát ecki mig, einsamann nockru sinni.

6. Lærisvein, sál mín! sjádu þann, sem Jesú eptirfylgdi, ránglát úngmenni ræntu hann, rétt nakinn vid þau skildi. Verſnøggur flótti betri er, enn brædralag óréttinda, vid selskap synda, ávinníng lát þig engann hér, í þeirra flocki binda.

7. Burt þadan Jesúm færdi fljótt, flockur illrædis-manna. Lamb Guds sak-

laust, þá leið að nótt, leiddu þeir til qvalanna, miskunarlaus sú meðferð bráð, mér virðist, eptir vonum, í nátt-mirkrunum, þeir hafa bæði hrakt og hrjáð, hrundið og þjakað honum.

8. Í dauðans mirkrum eg dæmdur þræll, dragast átti til pínu, en þú tókst, Jesú Son Guðs sæll! saklaus við straffi mínu, þannig tilbjóstu líffins leið, ljómandi sálu minni, þó líf hér linni, andláts qvölum og kaldri neyð, qvíði' eg því engu sinni.

9. Hrektu því svo og hrjáðu þig, Herra minn! illsku þjóðir, að hér nú bæri' á höndum mig, heilagir englar góðir, mæðusöm urðu mirkrin þér, mæta létu þig hörðu, og hindrun gjörðu, Guðs dýrðar-ljós svo lýsi mér, á lifandi manna jörðu.

10. Qvalaför! Jesú! þessi þín, sem þá gékkstu' einusinni, veri kraptur og vernd-in mín, svo veginn líffins eg finni! Lát ecki djöful draga mig, í dofinleik holdsins blinda, til sekta' og synda; eg bið af ást og alúð þig: ákífð hans burt' að hrinda.

10. Sálm-

# 10. Sálmur.

Um fyrsta ransak fyrir Caípha.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Til Hannas húsa Herrann Krist, hardrádir Júdar leiddu fyrst; beisk frá eg bönd hann særi, honum strax þadan vísad var, vidtekt fékk ei né hvíldir þar, mjög svo þó mæddur væri.

2. Burtsendi því med beiskri pín, bundinn Caiphæ mági sín, Hannas vorn Herrann setaʒ. Höfud-kénnimanns hærstu stétt, hafdi sá þetta árid rétt, Guds lögmáls átti' ad gæta.

3. Ur himnaríkis hvíldarstad, höfdum vid, sál mín! forskuldad, útrekin víst ad vera, en Jesús tók nú uppá sig, ónádum þessa fyrir þigʒ. lof sé þeim ljúfa Herra!

4. Hjartad bædi og húsid mitt, herbergi veri, Jesú! þitt, hjá mér þygg hvíld hentuga, þótt þú komir med krossinn þinn, kom þú blessadur til mín inn, fagna' eg þér fegins huga.

5. Caiphas hafdi hér um spád, hentugast mundi þetta rád, ad dæi' einn fyrir

alla. Embættis mælti andinn þar, af því hjartad ei vissi par, sannleik Guds sinnti valla.

6. Balaams dæmi eins var eitt, andagift slík var honum veitt, spaklega túngan spádi, hann hafd' í sinni hrekkja-rád, hjartad fékk ecki sannleiks gád, því hann fégirndin þjádi.

7. O Jesú! lát þinn anda hér, aldrei víkja í burt frá mér, leid mig veg lífsins orda, sem hjartad bædi' og málid mitt, mikli samhuga nafnid þitt, holds girnd og hræsni forda.

8. Til Caiphas vóru komnir senn, Kénni-valdid og Stjórnar-menn; Biskupinn þegar ad bragdi, leitar andsvars til Lausnarans, um lærisveina og kénning hans; en Jesús aptur sagdi:

9. Opinberlega, en ecki leynt, í musterinu kénnd' eg beint, hvad spyr þú mig um þetta? kunngjöra mega þar um þér, þeir, sem lærdóminn heyrdu' af mér, þá láttu þig leidrétta.

10. Gæt ad, mín sál! og skodu þar, Sonur Guds undir ransak var, krafdur þad

qvøldið eina; á qvøldi! hverju þú koma skalt, qvøldreikníng við þig sjálfa haldt, með qvøldoffurs ydrun hreina.

11. Þú, Guðs Kénnimann! þenk um það: þar mun' um síðir grenslast að, hvernin og hvað hér kénndir; að læri-sveinum mun líka spurt, sem lét þitt gáleysi villast burt; hugsa gløggt hvar við lendir!

12. Jesús vill, að þín kénníng klár, kroptug sé, hrein og opinskár, lík hvellum lúðúrs hljómi, launsmjaðran øll og hræsnin hál, hindrar Guðs dýrð en villir sál, straffast með straungum dómi.

13. Vangætslan mín er margvíslig, mildasti Jesú! beiði' eg þig, vægðu veikleika-mínum! forsóman engin fannst hjá þér, fullnaðar bót það tel eg mér, styrk veit þú þjóni þínum.

14. Eins er hér einnig øllum rétt, alvarleg kénníng fyrisett, orð Guðs elski og læri: trúin innvortis efli géð, einarðleg játníng líka með, ávext hið ytra færi.

15. Biskups þjón einn í bræði þó, blessaðann Jesúm pústur sló, svo það Ritníngin segir, hógværlegt andsvar Herrann

gaf, honum, sál mín! það lær þú af, um sakleysi þitt ei þegir.

16. Svart samvitskan Adam sló, úlann kinnroða fékk hann þó, í fyrsta falli sínu: þess vegna Jesús hoggið hast, hlaut að líða og roðna fast, allra fyrst í hans pínu.

17. Drottinn Jesú! eg þakka þér, þetta leiðst þú til frelsis mér; eg bið áststemi þína: samvitsku slegin svíða skjæð, á sálu minni þú mýk og græð, burt-tak þú blygðun mína.

## 11. Sálmur.

### Um afneitan Péturs.

Lagið: Dagur í austri öllu.

Guðspjalls historían gétur, gripinn þá Jesús var, allir, senn utan Pétur, yfirgáfu hann þar, og lærisveinn einn annar, álengdar geingu hljóðt, Herrans braut hrigðar sanna, harla dymmt var af nétt.

2. Caiphas Kénnimanni, kunnugur lærisveinn, inngeingur ørt með sanni, úti stóð Pétur einn, ambátt upplúka beiðir, ókénndann Pétur þá, í forsal til lýðsins leiðir. Lærdóm hér finna má.

3. Kross=ferli' ad fylgja þínum, fýsir mig, Jesú kjær! vorkénnutú veikleik mínum, þó verdi' eg álengdar fjær, þá trú og þol vill þrotna, þrengir ad neydin vond, reis þú vid reirinn brotna, og rétt mér þína hønd.

4. Kol=eld, því kaldt var nærsta, qveikt hafdi þræla lid, Pétur med sturlun stærsta, stód hjá þeim logann vid, ambátt hann ein sprogsetti, af sér þad heyra lét: unn þessi mann, hún frétti, med Jesú af Nazareth?

5. Hann neitar hradt ad bragdi, hræddur vid ordin bist, hann sig ei þeckja sagdi: þá gól nú haninn fyrst; ætlar sér út ad rýma, ønnur þerna hann sá, talar í annann tíma, til þeirra er stódu hjá:

6. Af Nazareth nú er þessi, nýkominn Jesú med, hinnar géd trú' eg þad hressi, hverr madur spyrja réd: ert þú einn af hans sveinum? en Pétur neita vann; sagdi med eidi einum: aldrei þeckta eg hann.

7. Þridja sinn þar til søgdu, þjónar Caiphas bert, málfærid sumir søgdu, seg=

ir til hverr þú ert; frændi Malchuss' réð mæla: mundi' eg þig ecki sjá, (gét eg síst grun mig tæla) í gardinum Jesú hjá.

8. Pétur med bljúgu bragdi, brádlega sagdi: nei! fór sig og sárt vid lagdi, froddann mann þeckt' hann ei. Gløggt þegar gjørdist þetta, gól haninn annad sinn. Sídst mátti sorgum létta, sút flaug' i brjóstid inn.

9. Sál mín! þér fári forda, freklega voga síst. án leysis Drottins orda, óstirkt er holdid víst, þykist þú stødug standa, stilla þinn metnad þarft, hverr sér vogar í vanda, von er sá falli snart.

10. Adur í aldingardi, óhræddur Pétur var, kallmennsku hugurinn hardi, hans sig auglýsti þar; audvird ambátt hann hreldi, ofmjøg því skélfast vann, frá sannleik sídan feldi, sama þig henda kann.

11. Koleldi qveiktum jafnast, kitlandi veraldar prjál, þrælar syndanna safnast, saman vid losta bál, fúllir med fals og villu, fordastú þeirra glis, ætíd er med þeim íllu, einføldum búid slis.

12. Ambátt með ýlgdu bragði, er þessi verold leið, mergum meinsnørur lagði, mjøg á spottyrðin greið, þýið með þræl= um sínum, þjóna Guðs lastað fær; styrk mig með mætti þínum, mót henni, Drott= inn kjær!

13. Eptir afneitun eina, út vildi Pét= ur gá, hugði hann braut sér beina, búna þeim selli frá. Þá kom eitt øðru verra: umkríngðu þrælar hann, afsór sinn sæla Herra, sér og formæla vann.

14. Hægt er hverjum að stofna, í hættu' og vanda = spil, forvitnis dælskan dofna, dregur þar margann til, ógæfu gildran þraunga, greip skjótt þann kunni' að ná, útkomu von fékk aunga; að því í tíma gá.

15. Opt má af máli þeckja, mann= inn, hverr helst hann er, sig mun fyrst sjálfann bleckja, sá með lastmælgi fer, góður af gæði hreinu, góðorður reynist víst, fullur af íllu einu, íllyrðin sparar síst.

16. Hriggileg hrøsun hendti, heilagann Drottins þjón, syndin mjøg sárt hann= spennti, sálar var búið tjón; hvað mun eg

máttar-naumur, mega þá standast við, vangætinn, vesæll og aumur, vélum og hrekkja-snið?-.

17. Í veraldar vondsku sölli, valkist eg, Jesú! hér, falli það opt mér olli, óstöðugt holdið er, megnar ei mót' að standa, mín hreysti náttúrlig, láttu þitt ljós og anda, leiða og styrkja mig!

## 12. Sálmur.

### Um yðran Péturs.

Lagið: Kom Andi heilagi.

Pétur þar sat í sal, hjá sveinum inni, tvennt hafði hana-gal, heyrt að því sinni:

2. Búinn var þrisvar þá, þvert hann að neita, sér Jesúm sælann frá. Sorg má það heita.

3. Drottinn vor veik sér við, (víst um það gétur), ljúfur með líknar sið, og leit á Pétur.

4. Strax flaug í huga hans, (hvað þó síst varði), Lausnarans orð og ans, í aldingarði.

5. Blygdadist brádt vid þad, brjóst fullt af trega, géck út úr greindum stad, og grét beisklega.

6. Sjá þú med sannri trú, sál mín ástkjæra! hvad framar hefir þú, hér af ad læra.

7. Hátt galar haninn hér, í hvers manns gédi, drýgdar þá syndir sjer, sem Pétur skédi.

8. Sárlega samvitskan, sekan áklagar, innvortis aumann mann, ángrar og nagar.

9. Fær hann sig frjálsann síst, þó finnist hreldur, sem fugl vid snúníng snýst, þeim snaran heldur.

10. Víkja þó vilji hann, frá vondsku hætti, orka því ecki kann, af eginn mætti.

11. Upp þó sér ætli brátt, aptur ad standa, fellur hann þegar þrátt, í þýngri vanda.

12. Lögmál Guds hrópar hátt, hanagal annad, segir og sýnir þrátt, hvad sé þér bannad.

13. Þad þvíngar, þrúgar med, þad slær og lemur, sorgandi syndugt géd, særir og kremur.

14. Það verkar sorg og sút, þeim seka manni, hjálpar þó engum út, úr synda banni.

15. Holdið þar þrjótskast við, og þykir illa, eykst á þann synda sið, svik, hræsni' og villa.

16. En Jesú álít skírt, Anda Guðs þýðir, sá gjörir hægt og hýrt, hjartað um síðir.

17. Lætur hann lögmál bist, lemja og hræða, eptir það fer hann fyrst, að friða' og græða.

18. Orð Jesú edla sætt, er hans verkfæri, helst fær það hugann kjætt, þó hreldur væri.

19. Hann gefur hreina trú, hann fallinn reisir, hann veikann hressir nú, hann bundinn leysir.

20. Ei er í sjálfs vald sett, (sem nokkrir meina), yfirbót, ydran rétt, og trúin hreina.

21. Hendi þig hrösun bráð, sem helgann Pétur, undir Guðs áttu náð, hvert ydrast getur.

22. Heimska er vesta víst, við það að dvljast, þú munir þá þér lítst, við þrautir skiljast.

23. Ef Jesús að þér snýr, með ástar hóti, líttu þá huga hýr, honum á móti.

24. Gráta skalt glæpi sárt, en Guði trúa, elska hans orðið klárt, frá illu snúa.

25. Ónýt er ýðran tæp, að því skalt hyggja, ef þú í gjörðum glæp, girnist að liggja.

26. Pétur þá formerkt féck, fall-hrösun slíka, úr synda-salnum géck, svo gjörðú líka.

27. O Jesú! að mér snú, ásjónu þinni; sjá þú mig særdann nú, á sálu minni.

28. Þegar eg hrasa hér, hvað mjög opt sannast, bend þú í miskun mér, svo megi eg viðkannast.

29. Opt lít eg upp til þín, augum grát-andi, líttu því ljúft til mín, svo leysist vandi!

## 13. Sálmur.

### Um Caiphas dóm.

Lagið: Jesús Guðs Son eingétinn.

Foríngar Presta fengu, fals-vitni mörg tilsett, fúslega fram að geingu, fullir með svik og prett, samhljóða

urdu eigi, uppdiktad margt þó segi, Jesús þá þagdi slétt.

2. Lær þú, ef lygum mætir, lífs = reglu, sál mín! hér, med forsi og þjóst ei þrætir! þrálega svo tilber, hógvær þegn heiptir stillir, heimskordur sannleik spillir, opt fyrir sjálfum sér.

3. Hirdt' aldrei, hvad sem gyldir, ad hætta' á ósatt mál, hvert verja' edur sækja vildir, verdur þad mörgum tál; munnur sá laungum lýgur, frá luckú' og blessun hnígur, hann deydir sína sál.

4. Sannleiks vitni þó segi, sekann mig Gudi hjá, óttast þarf eg nú eigi, afsökun hef' eg þá: ljúgvotta lýgi megna, leid Jesús minna vegna, klögun mig keypti frá.

5. Caiphas frétti fyrstur, falsklega Herrann ad: sjálfur hvert sé hann Kristur? og svo enn framar qvad: vid sannann Gud eg þig særi, ef Sonur hans ert' hinn kjæri, seigdú oss satt um þad.

6. Jesús játar ad stundu, jafnframt því svo nam tjá: Son mannsins sjá þeir mundu, sitja þadan í frá, til Kraptarins

hægri handar, og hér eptir komanda, skjærasta skýi á.

7. Kennimann reif sín klædi, qvad: slíkt Gudlastan er! adspyr med ógna brædi: um þad hvad haldid þér? allt Rádid undirtekur: er hann víst dauda sekur, svoddan samþyckjum vér.

8. Jesús ei ansa hirdti, ádur þá logid var, Guds Nafn þó gjarnan virdti, gaf því Caípha svar; lygd heims þó lúid sætir, Lausnarans dæmis gætir, leita Guds lof-dýrdar.

9. Hygg ad og herm hid sanna, hvenær, sem til er reynt, hrædst ei hótanir manna, haldt þinni játníng beint, gæt vel ad geymir þetta, Guds ord og trúna rétta, medkénndú ljóst og leynt.

10. Caíphass' løgsegn leida, lært hafa margir enn, hvad sem høfdíngjar beida, hinir álykta senn, vinskap sig villa láta, viljandi raungu játa; fordíst þad, frómir menn!

11. Sú er mín huggun sama, sem þín var, Jesú minn! krossinn þá ad vill ama, ofsókn og hørmúng stinn, hjá þinni

hægri hendi, hér þó að lífið endi, fagnaðar nægð eg finn.

12. Þér til guðløstun lagði, ljúgandi Kénnimann, dauða sekann þig sagði, sannlega úrskurð þann, átt' eg að heyra heldur, hardt með réttu sakfeldur, víst eg nóg til þess vann.

13. Andlegt vald einum rómi, úrskurðar daudann þér; Drottinn í náðar-dómi, dæmir því lífið mér. Þacka eg elsku þinni, þú keyptir sálu minni, fríun og frelsi hér.

## 14. Sálmur.

### Um þjónanna spott við Kristum.

Lagið: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Eptir þann dóm, sem allra fyrst, andlegir dæmdu um Herrann Krist, hafa þeir, þvíað þá var nótt, þegar til hvíldar geingið skjótt.

2. Drottinn vor eptir þreyttur þar, þrælum til gætslu fenginn var; gjørði að honum gis og dár, guðlausra manna flockur þrár.

3. Háðúng, spottyrði, hróp og brígsl, hverr lét með øðrum gánga' á vígsl, hræktu og slóu Herrann þar; hann þó á meðan bundinn var.

4. Sjá þú og skoða, sála mín! saklausa lambsins beisku pín, hugsa vandlega um það allt, af þessu hvað þú læra skalt.

5. Hann, sem að nætur-hvíld og ró, hverri skèpnu af miskun bjó, í sinni ógna eymda stærð, engann kost fèck á neinni værð.

6. Hvíldar-nótt marga hef eg þáð, Herra Jesú! af þinni náð; 'qvøl þín eymdum mig keypti frá, kannast eg nú við gæðsku þá.

7. Nær, sem eg reyni sorg og sótt, seinast aðkémur dauðans nótt, nætur-qvala, sem neyddu þig, njóta láttú þá, Jesú! mig.

8. Samvitsku sløg og Satans háð, sefi, Jesú! þín blessuð náð, ofboð dauðans og andláts pín, aftaki' og mýki gæðskan þín!

9. Margur (og víst það maklegt er) mjøg þeßum skálkum formæler, þó finn-

ast nockrir hér í heim, ad hegdun allri líkir þeim.

10. Hvad gjøra þeir, sem hér á jerd, hafa ad spotti Drottins ord, lifa í glæp= um ljóst til sanns, lasta og forsmá þjóna hans?

11. Sá, sem Guds nád og sannleik= ann, sjer, þeckir, veit og skynja kann, kukl og fjølkíngi kynnir sér, Caiphas's þrælum verri er.

12. Soninn Guds ecki þecktu þeir, því syndga hinir lángtum meir, sem kallast vilja kristnir best, Kristum þó lasta allra mest.

13. Hræsnarar þeir, sem hrecki' og synd, hylja þó undir frómleiks mind, lík= jast þessum, sem Lausnarann, lømdu blind= andi' og spjødu hann.

14. Hverjum, sem spott og hædni' er kjær, hann gengur þessum selskap nær, for= smán gudrækins fátæks manns, fyrirlitníng er Skaparans.

15. O! vesæll madur! ad því gá: eptir mun koma tími sá, sama hvad nidur sádir hér, sjálfur án efa upp þú skér.

16. Ef hér á jörd' er hrép og háð, hædni og gudlast' nidursáð, uppskorid verdur eilíft spé, agg og forsmán í helvíte.

17. Ætla þú ecki, aumur mann! afkomast muni strafflaust hann, sem Soninn hefir hér hædt og spjad, horfi Fadirinn uppá þad.

18. Hvad Jesús nú um nætur-skeid, naudstaddur hér af mønnum leid, ógudlegur um eilífd þá, af íllum djøflum líða má.

19. Okénndum hér, þó armur sé, aldrei tillegg þú háð né spé, þú veitst ei hvern þú hittir þar, heldur enn þessir Gydíngar.

20. Sjálfann slær mig nú hjartad hardt, hef' eg án efa mikinn part, af svoddan illíku ástundad, audmjúklega eg medgéng þad.

21. Sád hefi' eg nidur synda rót, svívirdíng mín er mørg og ljót; uppskérutímann óttast eg, ángrast því sálin nærsta mjøg.

22. Herra minn Jesú! hørmúng þín, huggun er bædi' og lækníng mín, saklepsi

víst þú sáðir hér, sælunnar ávøxt gafstú mér.

23. Blóð-dropar þínir, blessað sáð, ber þann ávøxt sem heitir náð, þann sama Guð mér sjálfur gaf, sáluhjálp mín þar sprettur af.

24. Hæddur varstú til heiðurs mér, høgg þín og sleg mín lækníng er, aldrei mun tjøfull ega vald, á mig að leggja synda-gjald.

25. En þér til heiðurs aptur á mót, ydrast vil eg og gjøra bót, holds vilja gjarnan hepta minn. Hjálpi mér, Jesú! kraptur þinn!

## 15. Sálmur.

Um ráðstefnu Prestanna yfir Kristó.

Lagið: Kristis er koma fyrir hondum.

Mjøg árla uppi vóru, Öldúngar Júða senn, svo til samfundar fóru, fyrstir þó Kénnimenn, í ráðslag létu leiðast, (líkar það øllum vel), hvernig þeir gæti greiðast, Guðs Syni komið í hel.

2. Heimtu með heiptar-lundu, Herrann vorn til sín brádt, orsøk því enga

fundu, allir sem mæltu hátt: seig oss, ef ert þú Kristur, einasti Son Guds sá? Grædarinu gædsku lystur, gaf andsvar þar uppá:

3. Þó ydur eg það segi, ecki samt trúid þér, andsvarid mér og eigi, ef eg spyr nockurs hér; Mannsins Son sjáid sitja, sem hjá Guds hægri hlid, í skýi mun eiuninn vitja, aptur med dýrdar sid.

4. Ertú Guds Son, þeir søgdu? svaradi Drottinn: já! djarfir þann dóm áløgdu; dauda-madur er sá. Uppstódu strax ad stundu, stríd þeim í hjarta brann. Frelsarann fjøtrum bundu, færdu Pilató hann.

5. Hér máttú, sál mín! sanna, svo gengur það til víst, ástundun illvirkjanna umhyggju vantar síst, árla þeir blundi bregda, binda fast øll sín rád, klóklega svickjum hegda, hverr, sem þess fengi gád.

6. En þú, sem átt ad vera, útvalinn Drottins þjón, verk hans og vilja gjøra, og varast þitt sálar-tjón, andvara engann hefir, umhyggju-litill sjest, vid glis heims gálaus sefur. Gud nádi svoddan brest!

7. Margir upp árla rísa, ei geta sofið vært, eptir auð heimsins hnýsa, holds gagnið er þeim kjært; sálin í brjósti sofnuð, sýnist að mestu dauð, til allra dygða dofnuð, sem Drottinn helst þó bauð.

8. Forsjónar verk-menn vísir, víngarði Drottins í, fyrst þá dags-ljóminn lýsir; ljúft bið eg gæti' að því, um sitt embætti hyggi, árla gjørð bænin sé, ydjulausir ei liggi, í líkamans gjálífe.

9. Haturs-menn Herrans vaka, hugsandi' að gjøra tjón; eptir því áttu' að taka, ef ertú' hans trygða þjón: viljir þú við þeim sporna, og varast þeirra háð, árla dags alla morgna, við orð Guðs haltú ráð.

10. Pænk nú í þínu hjarta, þar nærst í annann stað, hvarum Herrann réð qvarta, hyggja máttú þar að: orðum hans ecki treystu, íllgjarnir Júdar þeir, úr spurníng engri leystu, æ því vestnuðu meir.

11. Hver trúir nú hardt þó hóti, Herrann syndugum lýð! all-færstir inna' á móti, ydrunar svörin blíð; hyrtíngar hjálpa ecki, heimur vestnandi fer, blindleikinn trúi' eg oss blecki, búið straff nálægt er.

12. Víst er eg veikur að trúa, veitstu það, Jesú! best, frá syndum seinn að snúa, svoddan mig ángrar mest; þó framast það eg megna, þínum orðum eg vil, treysta og gjarnan gegna; gef þú mér náð þar til!

13. Þar nærst að þessu gætir, það er og lærdóms grein: ef þú órétti mætir, afsökun dugir ei nein, hafðu þá bíðlund hýra, Herrann mun til þín sjá, lát þolgeðs dæmið dýra, Drottins þig hugga þá.

14. Mér er, sem í eyrum hljómi, úrskurður Drottins sá, árla á efsta dómi, upp þegar dauðir stá, afsökun ei mun stoða, andsvör né spurníngar, sá stendur víst í voða, sem verður sekur þar.

15. Hér er nú kostur að heyra, Herrann talandi' í náð, opni Jesús mitt eyra, svo að því fengi gáð; hógvær vors bata bíður, blessaður þessa tíð, annars heims er hann stríður, öllum forherdtum lýð.

16. Árla úrskurðinn lögðu, á þig Gyðíngar þó, Jesú! og sekann sögðu, seldu þig Pilató: árla á efsta degi, afsökun gyldir sú, til dauða' eg dæmist eigi, Drottinn, þess minnist þú!

17. Árla dags uppvaknadur, ætíd eg minnist þín, Jesú minn! hjálpar-hradur, hugsa þú æ til mín! árla á efsta dómi, afsøkun vert þú mér, minnstú þá Frelsarinn frómi, hvad fyrir mig leidstú hér!

# 16. Sálmur.

## Um Júdasar ydran.

Lagid: Koníng Davíd, sem kénndi.

Júdas í girndar-grádi, af Gydíngunum fyrst, þrjátíu penínga þádi, því sveik hann Herrann Krist; ljóst þegar líta vann, Drottinn var nú til dauda, dæmdur og þúngra nauda, ydradist eptir hann.

2. Greidt í musterid gengur, (greinir svo Ritníng frá), um silfrid sinnti' ei lengur, senn vill þad Prestum fá, sagdi med sárum móð: ó! hvad eg gjørdi ílla, þá yfir mig kom sú villa, ad sveik eg saklaust blód!

3. Lidsemd Prestarnir legdu, litla, sem von var ad, hardlyndir honum søgdu: hvad egum vér med þad? þú mátt einn sjá um þig. Silfrinn' á gólfid grýtti, gékk þadan, mjøg sér flýtti, og hengdi sjálfann sig.

4. Ráðstefnu Herrar héldu, hættu þar sèinast við, fyrir aûur sjálfir seldu, silfrið Leirkéra smið. Aður sagt um það var, í spádóms søgum sønnum: sá var vegferðar-mønnum, géfinn til greftrunar.

5. Sjá hér, hvað íllann enda, ótrygð og svikin fá; Júdasar líkar lenda, leiksbróður sínum hjá, andskotinn íllsku flár, enn hefir snøru snúna, snøgglega þeim tilbúna, sem fara með fals og dár.

6. Otrú sinn eginn Herra, ætíð um hálsinn sló, enginn féck af því verra, enn sá meinlausum bjó, forræði, fals og vél, Júdas því henging hendti, hann sølskum til sín bendti, eins og Achítóphel.

7. Fé-girndin Júdas feldi, fyrst var hans aðtekt sú, Guðs Son Gyðíngum seldi, gleymdi því æru' og trú, svo til um síðir géck, kastaði keyptum auði, þá qvaldi sorg og dauði, huggun alls enga féck.

8. Undir-rót allra lasta, ágirndin kølluð er, frómleika frá sér kasta, fjárplógs-menn ágjarner, sem freklega elska féð, auði með okri safna, andlegri blessun hafna, en setja sál' í veð.

9. Annadhvert er í vonum, audurinn fag-ur nú, hafnar þér, ellegar honum, hriggur burtkastar þú, þá daudinn þreyngir ad, á-girndin. ótæpt svelgir, af því sálina velgir, í keldum qvala-stad.

10. Falsi og fégirnd rángri, forda þér sál mín! blíd, svo mætir ei ógn né ángri, þá adfer daudans tíd, vird lítils veraldar plóg, hverr, sá sér lynda lætur, þad lénar Drottinn mætur, sá hefir alls nægta nóg.

11. Opt Jesús ádur hafdi, áminníng Júdas gjört, hreckvísin hjartad vafdi, hann héldt þad einkis verdt, nú kom þar einnig ad, tilsogn hatadi hreina, huggun féck því ei neina, varastú víti þad.

12. En hvad framleiddi hann illa, ád-ur líferni sitt, þessi þó var hans villa, verri' enn allt annad hitt, ad hann ør-vænting med, sál og líf setti' í vanda, synd á mót' heilogum Anda, held eg hér hafi skéd.

13. J Drottni' ef viltú deya, Drottni þá lifdú hér, til ills lát ei þig teygja, ord Guds sé kjærast þér; sæll er sá svo vidbýst; en ef þig ófall hendir, aptur i tíma vendir, undandrag ydrun síst.

14. Brot þín skalt bljúgur játa, en bið þó Guð um náð, af hjarta hriggur gráta, en heilnæm þyggja ráð; umfram allt þenktú þó: Son Guðs bar þínar syndir, og svo þú miskun findir, saklaus fyrir sekann dó.

15. Drottinn! lát mig ei dyljast, djarflega syndir við, þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess eg bið: nær heimi fer eg frá, örvænting ei mér grandi, orð þitt og sannleiks Andi, hjarta mitt huggi þá!

## 17. Sálmur.

Um Leir-kéra-smiðs akurinn.

Lagið: Faðir! á himna hæð.

Svo sem fyrr sagt er frá, silfur peninga þá, hverjir loks Júdas hreldu, Höfuð-prestarnir seldu.

2. Og keyptu einn (til sanns) akur Pottmakarans, þar má fullt frelsi hafa, framandi menn-að grafa.

3. Þar finnst ein þýðing fín, þess gættú, sála mín! af Guðs ásettu ráði, um það Zacharías spáði.

4. Líkist Leir-kéra-smið, líknsamur Drottinn við, sem fyrr Esajas sagði, sjálfur það rétt útlagði.

5. Af leir með lífsins krapt, lét hann mannkynið skapt, hrein kér til heiðurs setur, hin önnur lægra metur.

6. Drottinn einn akur á, er honum falur sá, minnstu' hann miskun heitir, mæddum lýð huggun veitir.

7. Jesús einn er sá mann, sem akurinn keypti þann, en hans blóð-dropar blíðir, borgunar-gjaldið þýðir.

8. Framandi fólkið það, sem fékk ei neinn hvíldar-stað, erum vér sorgum setnir, af syndugu' eðli gétnir.

9. Illkunnar eðlið vort, útlenda hefir gjört, oss frá eilífri gleði, í Adams falli það skéði.

10. Sálin í útlegð er, æ meðan dvelst hún hér, í holdsins hreysi naumu, haldin fángelsi aumu.

11. Dauðinn með dapri sút, dregur um síðir út; hana, þá hreysið brotnar, holdið í jörðu rotnar.

12. Eins og útkastad hræ, (ef eg rétt skynjad fæ), hjálparlaus sál má heita, hvíldar kann sér ei leita.

13. Hættu og hörmúng þá, Herra minn Jesús sá, ønd vora' af ást og mildi, úr útlegd kaupa vildi.

14. Fadirinn falt þad lét, fridar-stad sálum hét, ef Sonurinn gjald þad greiddi, sem Guds réttlætid beiddi.

15. Opnadi sjódinn sinn, Sonur Guds, Jesú minn! húdstrýktur, qvalinn, krýndur, á krossi til dauda píndur.

16. Blód-dropar dundu þar, dýrasta gjald þad var; keyptann akur því egum, óhræddir deya megum.

17. Hér þegar verdur hold, hulid í jardar mold, sálin hrigdarlaust hvílir, henni Guds miskun skýlir.

18. En þú skalt ad því gá: akursins greftrun þá, engir utan þeir fengu, í Jerúsalem gengu.

19. Kristnin Guds hér um heim, heitir Jerúsalem, í hana' innkomast hlýtur, hverr, sem miskunar nýtur.

20. Í henni hverr einn sá er, á Jesúm trúir hér, skírdur og alla vega, ydrun gjøra daglega.

21. Óqvídinn er eg nú, af því eg hef' þá trú: miskun Guds sálu mína, mun taka í vøktun sína.

22. Hvernig sem holdid fer, hér þegar lísid þver, Jesú! í umsjón þinni, óhætt er sálu minni.

23. Eg lofa, Lausnari! þig, sem leystir úr útlegd mig, hvíld næ eg nádar-spakri, nú í miskunar akri.

24. Þú gafst mér akurinn þinn, þér géf eg aptur minn, ást þína á eg ríka, eigdú mitt hjartad líka.

25. Eg géf og allann þér, æ medan tóri' eg hér, ávøxtinn ydju minnar, í akri, kristni þinnar.

26. Eins bid eg aumur þræll: ad unnir þú, Jesú sæll! lídnum líkama mínum, legstad í akri þínum.

27. Hveiti-korn þecktú þitt, þá upprís holdid mitt, í bindini barna þinna, blessum lát þú mig finna!

# 18. Sálmur.

## Um áklögun Gydínganna fyrir Pílató.

Lagið: Sælir eru, þeim sjálfur Guð.

Árla, sem gleggt og greina vann, med Guds Son bundinn fara, Prestarnir, svo ad píndist hann, til Pílatum Landsdómara; í þíng-hús inn, það sama sinn, sagt er þó enginn kæmi, svo ecki meir, saurgudust þeir. Sjá hér hræsinnar dæmi.

2. Inngáng um húss-dyr Heidíngjans, héldu þeir synd bannada, en saurgast á blódi saklaufs manns, sýndist þeim engann skada. Heims börnum hér, óvirdíng er, aumstöddum hjálp ad veita, Guds ords forakt, ágirnd og prakt, engin misgjörd skal heita.

3. Pílatus, sem það formerkt fékk, fyrst ei þeim metnad sætti, án dvalar sjálfur út því géck, embættis skyldu gætti, sakargift þá, vill fulla fá, framborna' af þeirra munni, dár-yrdin fljót; drambsemi mót, Dómarinn finna kunni.

4. Lát þér ei vera afmán ad, ef þú vilt frómur heita, af Pílató ljóst ad læra það,

sem loflegt er eptir ad breyta, ránglætid hans, þess heidna manns, haldt þér múkun tvøfalda; þeim midur fer, enn honum hér, hverr vill þann kristinn halda?

5. Alitid stórt og hefdar-hátt, hrædast skyldir þú ecki, samleikans gæta ætíd átt, engin kjass-mál þig blecki. Krugirnd ljót, hofmódug hót, hæfir síst Yfirmønnum, dramblátum þar, þú géf andsvar, þó byggt á røkum sønnum.

6. Aldúngar Júda allra fyrst, uppbáru søk þrefalda: fólkinu þessu fráfnýr víst, fyrirbýdur ad gjalda, Keisarans skatt, þad segjum vér satt; sjálfur vill Kóngur heita; og Kristur sá, sem koma á, qvittun og frid ad veita.

7. Hér koma fram þau réttu rek, rædu og þánka minna! þér, Jesú! géfin var þrefold sok, þad kann eg gløggt ad finna; þrefaldleg sekt, mig þjádi frekt, þar um eg klagast mætti: þrefalda stygd, og þúnga lygd, þú leidst med søgdum hætti.

8. Fráfnúid Gudi allt mitt er, edlid og líf fáneyta, odrum því géf eg opt af mér, ill dæmi svo ad breyta; en hérámót, med elsku hót, øll Guds børn rétt því trúa,

frá bölvum, deyð, djöfli og neyð, Drottinn réð lýðnum snúa.

9. Guði átt' eg að greiða frí, gjald, hlýðni' og þakkar-skyldur, ránglega hefi' eg haldið því, höndlað sem þræll ógyldur: auðsveipnin þín, fyrir öllum skín, átsemdar Herrann kjæri! þú bauðst: gefið, (gafst sjálfur með), hvað Guðs og Keisarans væri.

10. Sannlega hefi' eg hrokað mér, hærra enn vera skyldi, boð og skipun míns Herra hér, haldið í minnsta gyldi; Kóngdóm í heim, og heiðri þeim, hafnaðir þú og flýðir; hátignin þín, á himnum skín, hún mun birtast um síðir.

11. Rægður varstú fyrir ránga sök, réttláti Jesú mildi! uppá það öll mín ílsku rök, afplánað verða skyldi; áklagan sú, sem þoldir þú, þess bið eg Herrann frómi, sé mitt forsvar, þá finnst eg þar, fyrir þeim stránga dómi.

## 19. Sálmur.

### Játníng Kristí fyrir Pilató.

Lagið: Mitt hjarta! hvar til hriggist þú.

Gyðíngar hefðu' af hatri fyrst, harðlega klagað Jesúm Krist, sem áður sagt er frá,

Landsdómarinn gjörði' ad gá, gløggt hvad þyddi framburdur sá.

2. Áklögun fyrsta andleg var, um þad Pílatus finnti' ei par, önnur um skyldu-skatt; hann vissi vel þeir sögdu' ei satt, svoddan málum þegjandi hratt.

3. En sem þeir nefndu Kónginn Krist, kom honum þá til hugar fyrst, hvad ádur heyrdi' og nam, af Júdum mælt um Messíam, ef mætti ské þad kjæmi nú fram.

4. Pílatí sinni í sumum finnst, sem um Guds dýrkun hugsa minnst, Hofdíngjum hræsna tídt, undirsáta frelsid frídt, fjárplógs gjarnir rækja nú lítt.

5. Hirdstjórinn spurdi Herrann þá, hvert hann sé Júda Kóngur sá? en Jesús aptur tjer: talar þú svo af sjálfum þér, eda sögdu adrir þvílíkt af mér?

6. Þá vard Pílatí þelid kaldt, þig hatar sagdi' hann, fólkid allt, hvad ílt hefir þú gjört? aptur Jesús ansar bert: er þad nærsta þeinkíngarverdt.

7. Mitt ríki' er ecki hédan af heim, hardt mundi annars móti þeim, strída minn maktar her, sem nú mig seldu í

naudir þér, svo nædu ecki Gydingar mér.

8. Pilatus aptur ansa vann: ertú þá Kóngur? sagdi hann: játadi Jesús því, hingad barst eg heiminn í, ad herma skyldi' eg sannleikann frí.

9. Hverr af sannleiknum sjálfur er, sá mína røddu heyrir hér. Hædnisfvar hinn tilfann: Hvad er sannleikur? sagdi hann; svo géck burt med úrskurdinn þann.

10. Hér máttú, sál mín! heyra fyrst, Herrann Jesús er Kóngur víst, þó ecki' ad heimsins hátt, svoddan vel þú athuga átt, þad eykur gledi hjartanu þrátt.

11. Kóngs-tign þín, Jesú! eilíf er, allir þyggja sín veld af þér, høfdíngjar hér um heim, þú lénar, géfur, lánar þeim, løndin, ríki, metord og seim.

12. Fyrir þinn krapt og frelsis hønd, forsvara Kóngar ríki' og lønd, sem er þeim undirlagt, en móti djøfli' og daudans makt, dugir enginn høfdíngja prakt.

13. Þú hefir sigrad synd og deyd, sjálfann djøful og vítis neyd, hádir eitt herlegt stríd, allann svo þinn leystir lýd. Lof sé þér um eilífa tíd!

14. Andlegt þitt ríki og eilíft er, ord sannleiks því rétt stjórnar hér, þinn veldisvøndur sá, óvini slær mér alla frá, í þeim krapti sigra eg þá.

15. En fyrst þitt ríki andlegt var, um þad heimurinn sinnti ei par, hann fann ei hofmód sinn, hjá þér, Jesú Herra minn! hatadi allann gódvilja þinn.

16. Undrast því, sál mín! ecki þarft, þó adkast veraldar lídir margt, þar um þér þenkja ber, ertú nú í útlegd hér, annars heims þitt fødurland er.

17. Sannleika-Kóngsins sannleiks-raust, sá þarf ad elska hræsnislaust, sem er hans undir-mann, því slægd og lýgi hatar hann, hreinhjørtudum miskunar ann.

18. Ef þú, mín sál! í Gudi glødd, girnist ad heyra Kóngsins rødd, gættú þá gjørla hér: hvad boda Drottins þjónar þér, þeirra kénníng raustin hans er.

19. Ransaka, sál mín! ord þad ørt, ad verdur spurt: hvad hefir þú gjørt? þá Herrann heldur dóm, hjálpar engum hræsnin tóm, hrein sé trú í verkunum fróm.

20. En sekum þess þú ei saklaus ert, sjálfa spyr þig: hvad hefir þú gjørt? um

hvern umlíðinn dag; ydrun' gjör og grát þinn hag, Guðs Son bið það færa í lag.

21. Allt hef' eg, Jesú! illa gjört; allt það að bæta þú kominn ert, um allt því eg qvittur er; allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bið eg, hjálpa þú mér!

## 20. Sálmur.

### Önnur áklögun Gydínga fyrir Pílató.

Lagið: Ovinnanleg borg er vor Guð.

Pílatus hafði prófað nú, píslar-sök Jesú géfna, klén virðtist honum Kóngs-tign sú, þá Kristur sannleik réð nefna, heims sannleik heiðra létst, hæddi Guðs sannleik mest; sannindin elska ber, orð Drottins láttu þér, kjærast þó allra efna.

2. Jafnótt þá gánga Jarlinn réð, til Júða út að bragði: enga sök þessum manni með, má eg finna, hann sagði; Gydíngar heldur hardt, Herrann klögdu' um margt, með æði, ógn og dramb, eins rétt sem meinlaust lamb, Lausnarinn ljúfur þagði.

3. Hann hefir uppæst lýðinn lands, lengi mjög víða kénndi, frá Galílæa' og

svo til sanns, um sídir allt híngad vendi. Pílatus hugdi hér hrynda þeim vanda' af sér, Heródes hafdi því, hirdstjórn þeim parti í, til hans því Herrann sendi.

4. Fyrir mig, Jesú! þoldir þú, þjáníng og beiska pínu, hjartad gledst, því eg heyri nú, hrésad sakleysi þínu: syndin lá sárt á mér, sök fannst engin hjá þér, svo er sakleysi þitt, sannlega ordid mitt, vid málefni tókst þú mínu.

5. Logmál Drottins þá hefndum hardt, hótar mér eptir vonum, aptur, minn Jesús ansar snart: enginn sök finnst med honum, sakleysi, mitt til sanns, segi' eg nú ordid hans, engin áklogun fljót, orka skal neitt á mót, mínum þol-lyndis þjónum.

6. Ouytju-hjal og mægin mín, mér til falls koma ætti; en, Jesú! blessud þogn-in þín, þad allt fyrir mig bætti; fylda mín aptur-er, eptir ad breyta þér, þeigjandi' í þýdri trú, þola, nær líd eg nú; þorf væri þess eg gætti.

7. Píatus meinti mannvits slægd, mundi óbrigdul standa, koma vill því med kjænsku-nægd, Kóng Heródi í vanda. Kunna þá adferd enn, allmargir veraldar menn; bid-

Guð, og gæt þín vel, gjarn er heimur á vél, gálausum svikin granda.

8. Kross-gángan, Jesú! þessi þín, þar fyrir eflaust skéði, svo hvílast mætti sálin mín, sæt í eilífri gledi. Embættis ómak lángt, opt þó mér finnist strángt, til lofs og þóknunar þér, það vil eg gjarnan hér, líða með ljúfu gédi.

## 21. Sálmur.

### Um Heródes forvitni og hvíta klæðið.

Lagið: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þegar Heródes Herrann sá, hann varð mjøg glaður nærsta, af honum heyrt hafði og helst vill fá, hans ásýnd líta glæsta: forvitinn mørgu frétti að; fýsn holdsins kapp á lagði, með bistu bragði. Jesús tók ecki undir það, við øllum spurníngum þagði.

2. Margir finnast enn hér um heim, Heródis líkar réttir, Guðs orð er skémt og gaman þeim, sem glens eður nýjar fréttir, forvitnin holdsins hnýsir þrátt, í Herrans leyndardóma, með fýsn ei fróma, aumri skynsemi ætla' ofhátt, aldrei til skilníngs koma.

3. Mannvits djúpfindni og menta glis, margir þá vilja reyna, að orði Drottins þeir gjøra gis, gaman loflegt það meina. Varastú, sál mín! vítin reynd, vird þú í hærsta gyldi, þá miklu mildi, alvarlega með góðri greind, Guð við þig tala vildi.

4. Guð gjørir ecki' að gamni sér, glæpamønnum að hóta, kals-mælgi honum og engin er, að þú megir miskun hljóta; auðmjúklega með allri gát, áttú um slíkt að ræða, og fleiri fræða; en af þér heyrast aldrei lát, orð Drottins skulir þú hæða.

5. Heyri' eg um þig, minn Herra! rædt, í hjálpræðis orði þínu, allt sýnist mér þá búið og bætt, bølið í hjarta mínu, í Sakramentinu sje eg þig, svo sem í líkíng skjorri, með náð mér nærri; ó! hvað gleður sú ásýnd mig, engin finnst huggun stærri.

6. Heródes fýsn var holdleg sú, hann réð forvitni ginna; en mín sála af ást og trú, andvarpar þig að finna, lossamleg er sú luckú-stund, þá lít eg þig, Herra þýði! í þinni prýði, géf mér loksins þann fagnaðar-fund, þó fyrst um sinn hér bíði.

7. Það kénnir Herrans þøgnin fróm, þar nærst í annan máta: hann vill ei sín-

um helgidóm, fyrir hunda kasta láta, Drottinn forsmáir drambsamt geð, djarflega margs þó freisti, og frekt sér treysti, hugstoltum niður hrinda réð, hógværa sál viðreisti.

8. Heródes og hans hoffólk lítt, um Herrann akta vildi, færði hann í eitt fatið hvítt, forsmán það heita skyldi, til Pílatus's síðan sendur var, svo komst í friðar stilli, sá ofsinn íli, drambsöm øfundin áður bar, óvinskap þeirra milli.

9. Hvítt klæðið gjörði háðúng þér, Herra minn Jesú sæti! dýrðar skrúða svo skenktir mér, skínandi Guðs réttlæti, sakleysis merkið þetta þitt, þíns Foðurs gæðskan hreina, þá þekti' alleina; hann sjer og prófar hjartað mitt, hvað sem illgjarnir meina.

10. Heilagra safna hópur skjær, á himnum með skíkum friða, til heiðurs þér, Jesú Herra kjær! hvítum klæðum sig skrýða; eins hér á jörðu upp frá því, eflaust í minníng slíka, með rækhemd ríka, birtust snjóhvítum búníng' í, blessaðir Englar líka.

11. Veittu, Jesú! þá miskun mér, meinleysis skrýddur klæði, þjóni' eg tál = laust

með trygðum þér, í trú, von og þolinmœði, réttlœtis skrúða skartið þitt, skíni á sálu minni, þó líf hér linni, eins láttu holdið einninn mitt, af-klœðast þrjóskn sinni.

12. Forlíkast gjørðu fjandmenn tveir, þá fórstu þar, Jesú! milli; eg veit, mér gafstu miklu meir, mikun og friðarstilli, hjá Guði Feður, svo (til sanns), sjest enginn reiði lengur, né stygðar strengur, daglega milli mín og hans, minn trúr Frelsari gengur.

13. Hvar sem ófriður hrevfir sér, af holdsins veikleik brádum, milli kristinna manna hér, móti Guðs vilja' og ráðum, gacktu þar, Jesú! milli mest, með þínum friðar anda, og varna vanda, hjálpa þú, svo vér hugsum best, í hreinum kjærleik að standa!

## 22. Sálmur.

### Um krossfestíngar hróp yfir Kristó.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Frá Heróde þá Kristur kom, kallar Pílatus snjöllum róm, Gyðingalýð, og ljós gaf rök, Lausnarinn hefði enga sök, samþyckur væri og sér til þess, sjálfur Kóngurinn Heródes.

2. Sannlega Drottinn saklensið, sjer, elskar bæði' og styrkir með, hjarta og munnur hvers eins manns, hlýtur að þjóna vi'ja hans. Málefnið gott fær góðann róm, gæt þess, mín sál! og vertú fróm.

3. Siður Gydínga sá var þá, sakamann einn þeir skyldu fá, um Páska tímann frá píslum frí, Pílatus átti' að gégna því. Í frelsis minníng úr Egyptó, aldrei bauð Drottinn svoddan þó.

4. Sjá til, mín sál! að siðvaninn, síst megi villa huga þinn, forðastú honum að fylgja hér, framar enn Guðs orð leyfir þér. Góð meiníng enga gérir stoð, gylda skal meira Drottins boð.

5. Pílatus Júðum sagði svo: sjáið nú gleggt um kosti tvo, eg býð hér Jesúm yður fram, eða morðíngjann Barrabam. Hann meinti' að yrði helst með því, Herrann frá dauða géfinn frí.

6. Nú fær nú gleggt af þessu sjeð, þar sem Drottinn er ecki með, í verki', áformi' og vilja manns, verða til einkis ráðin hans; sérvitska holtsins svikul er, svo sem Pílatus skéði hér.

7. Yfirmennirnir allra fyrst, óskudu' ad Drottinn krossfestist, almúgann svo í annann stad, eggjudu mest ad bidia um þad, Barrabbas's útlausn skyldi ské, skilinn Jesús frá lísi sé.

8. Veraldar dæmin varast skalt, vógadú ecki ad gjera þad allt, sem Hesdíngjarnir nú hafast ad, þó heimurinn kalli loslegt þad; ef blindur leidir blindann hér, bádum þeim hætt vid falli er.

9. Hverr þig eggjar á illverk brád, aldrei gack þú med þeim í rád, vinn þú þad ei fyrir metord manns, ad missa Guds nád og vinskap hans; hverugur annars bætir bol, þó bádir rati' í straff og qvøl.

10. Yfir-monnunum er því vandt, undirsátarnir hnísa grant, eptir því sem fyrir augun ber, audnæmast þó hid vonda er; hvad Hosdíngjarnir hafast ad, hinir ætla sér leyfist þad.

11. Ill eptirdæmi á alla grein, eru samlikt vid milnustein, viljir þú vera' af fári frjáls, festú hann aldrei þér vid háls, í Guds ótta frá þér glæpum hrind, gód vertú ødrum fyrirmind.

12. Húsfrú Pílati holl gaf ráð, hefði hann betur að því gáð; góðar qvinnur þess gæti mest, gjarnan ástundi dæmin best. Abígael sær æru' og sæmd, ílla Jessabel verður ræmd.

13. Set eg það nú í sinni mér, sæti Jesú! að gæta' að þér: allir hrópuðu allt um kríng, yfir þig dauða og krossfesting, sem lamb meinlausast þagðir þú, þar af stendur mér huggun trú.

14. Lögmálsins bölvan bitur og sterk, banvænn djøfull og øll mín verk, þó hrópa vilji nú hvert fyrir sig, hefnd og fordæmíng yfir mig, nýt eg, minn Jesú! píní því, frá þeirra kløgun verð eg frí,

15. Afellis dómsins ógna hróp, ytstu mirkranna vein og óp, aldrei mun koma' að eyrum mín, eyrun blessuð fyrst heyrðu þín, kall og hárevsti kríngum sig, frá qvøl og angist það frelsar mig.

16. Hrópar nú yfir mér himin og jørð, helgun, frið, náð og sáttargjørð, hvert held eg geng út eða inn, í þínu nafni, Jesú minn! bænar-hróp mitt í hreinni trú, himneskum Guði þóknast nú.

17. En þér til heidurs alla tíd, Englar Drottins og kristnin fríd, hrópar nú bædi' á himni' og jørd: Hósanna, lof og þakkargjørd! Amen segir og uppá þad, ønd mín gladvær í hverjum stad!

## 23. Sálmur.

### Um Kristi Húdstrýking.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Pílatus Herrann hærsta, húdstrýkja lætur þar. Nakinn vid stólpann stærsta, strengdur þá Jesús var, strídsmenn med svipum hroktu hann; sál mín! hér sjá og skoda, hvad Sonur Guds fyrir þig vann.

2. Helgasta holdid frída, frá hvirfli iljum ad, Drottni vard sárt ad svída, svall allt af benjum þad, hverr hans líkama limur og æd, af sárum sundurflakti, sú hyrting mjøg var skjæd.

3. Blessadur dreyrinn dundi, Drottins líss-ædum úr, sem regn þad hradast hrundi, himins í dymmu skúr, blánadi hold en bólgnadi und, Sonur Guds sárt var qvalinn, saklaus á þeirri stund.

4. Eg var, sem fjötrum færdur, fángelsi þúngu í, á önd og samvitsku særdur, syndin mín olli því, sú dandleg salar sóttin hér, um hverja æd út sér dreifdi, ekkert fannst heilt á mér.

5. Svipan lögmálsins lamdi, líf og sál heldur frekt, óttinn qvalanna framdi, kominn var eg í sekt, banvænlegt ordid mitt var mein, hjartad af hrigdum stundi, hvergi fékkst lækníng nein.

6. Sástú þá, Jesú sæli! sár mín óbærileg, til lausnar þínum þræli, því létstú binda þig, gékkst svo undir þá grimdar qvöl, ad eg qvittadur yrdi, vid eilíft hrigdar böl.

7. Sjúkdóm minn sjálfur barstú, svo vard eg heill med því, hörmúngum hladinn varstú, frá hrigdum er eg nú frí, hegníng þú fékkst svo hefdi' eg frid, benjar þínar mér bættu, bót sú þar átti vid.

8. Hjartad vill hrædslan krenkja, med hördum sorgar stíng, þegar eg gjöri ad þenkja, um þína húdstrýkíng, aví! eg gaf þar efni til, þú einn galdst þrjótsku minnar, þess nú eg ydrast vil.

9. Því féll eg nú til fóta, Frelsarinn Jesú! þér, láttú mig nafns þíns njóta,

náð og vægð sýn þú mér, og skal með hlýðni heidra þig, nú og um eilífð alla, þá huggar þú, Herra! mig.

10. Gledstu, mín sál! þig græddi, Guðs Sonar heilagt blóð, þó synd og sorgin mæddi, sjá! hér er lækníng góð, náð fyrir reidi nú er vís, brot þrælsins Herrann bætti, bar því síns Foðurs hrís.

11. Skoða þú skyldu þína, skírlega, sál mín! nú: Sonurinn sig lét pína, svo læknuð yrdir þú: heilbrigð þjóna þú honum rétt, með trú, hollustu' og hlýðni, haf gát á þinni stétt.

12. Þóknist honum að þjaka, þitt holð orkumslum með, þýðlega því skalt taka, þolinmóðt hjarta-géð, ásjer Drottinn og elskar best; Lausnara líkjast þínum, lof er þér allra mest.

13. Eckért má sóma sídur, sí-kátur þrællinn er, þá Herrann harmqvæli lídur, haf slíkt í minni þér; hrigdar-mind hans er heidur þinn. Lát mig það læra' og halda, ljúfasti Jesú minn!

24. Sálm-

# 24. Sálmur.

Um purpurann og þyrni-kórónu.

Lagið: Til þín, heilagi Herra Guð!

Allvirkjar Jesúm eptir það, inn í þínghúsið leiddu, afklæddu fyrst, og fljótt þángað, fólkið allt koma beiddu, purpura-klæðis forna slík, (fást mátti valla hádúng slík), yfir hans benjar breiddu.

2. Helgunar klæðið hafði' eg mist, hlaut því nakinn að standa; Adam olli því allra fyrst, arf lét mér þann til handa; syndanna slík eg færðist í, forsmán og minkun hlautst af því, með hverskyns háska' og vanda.

3. Burt-tók Jesús þá blygðun hér, berann því lét sig pína, réttlætis klæðnað keypti mér, kann sá fagurt að skína; athvarf mitt jafnan er til sanns, undir purpura kápu hans, þar hyl eg misgjörð mína.

4. Þyrni-kórónu þúnga þeir, þreyngdu að Herrans enni, bál-eldi heitum brenndu meir, broddar svíðandi' í henni, augun hans bæði og andlit með, allt af blóðinu fyllast réð, slíkt trúi' eg qvala kenni.

5. Fyrir óhlýdni Adams var, øll jørdin lýst í banni, ávørt því slíkann af sér bar, ord Guds trú' eg það sanni; þessum bølvunar þyrni = krans, þreyngt var ad høfdi Lausnarans, til huggunar hreldum manni.

6. En Jesú hlýdni aptur hér, allri jørd blessun færir, heilnæmann ávøxt hún því ber, hverja skèpnu vel nærir. Fyrir gædskunnar gjørníng þann, gøfgi, lofi og prísi hann, hvad sig um heiminn hrærir!

7. Bølvan mér yfir høfdi héck, hótud í løgmáls brædi; enn Jesús hana undir géck, svo aptur eg blessun nædi; Gud minn kórónu gaf mér þar, gædsku og dýrdar eilífrar, hér og á himnum bædi.

8. Reyr=staf honum í hønd med spé, Hyrdstjórans þrælar fengu, heilsudu Kóngi og krupu' á kné, kals ord á víxl þá gengu, reyrnum hrøcktu um høfud hans, hræcktu í andlit Lausnarans, med qvala = kappi straungu.

9. Þá þú géngur í Guds hús inn, gæt þess vel, sál mín fróma! hæd þú þar ecki Herra þinn, med hegdun líkamans tóma, beygdu holdsins og hjartans kné, heit

bæn þín ástar=qvedja sé, hræsnin mun síst þér sóma.

**10.** Sjálfs míns verdskuldnn sje eg hér, svoddan átti' eg ad lída, um eilífd þá, sem aldrei þver, med ógn og sárum qvída, hefdi mér ecki hørmúng þín, hjálpad, Jesú! frá þeirri pín. Blessad sé nafn þitt blída!

**11.** Øll þín lægíng er upphefd mín, ástkjæri Jesú mildi! heidur er mér ad hádúng þín, hverr sem mér nidra vildi, høggin, sem leidstú, hressa mig, á himnum verd eg nú fyrir þig, metinn í mesta gyldi.

**12.** Medan lífs æd er í mér heit, eg skal þig, Drottinn! prísa, af hjartans grunni' í hverjum reit, heidur þíns nafns auglýsa, feginn vil eg í heimi hér, hlýda og fylgja í øllu þér; lát mér þína lidsemd vísa!

## 25. Sálmur.

### Um útleidslu Kristí úr Þíng=húsinu.

Lagid: Kóníng David, sem kénndi.

Lands=dómarinn þá leiddi, Lausnarann út med sér, Gydíngum gydsvør

greiddi, glögglega og svo tér: Hér sjáid þennann hér! sannlega ydur eg segi, sok finnst med honum eigi, sú dauda-dóms verd er.

2. Þá géck Jesús út þanninn, þyrni' og purpura bar, sagdi: sjáid hér manninn! sjálfur dómarinn þar; Gydingar gáfu svar: burt med hann, svo þeir segja, sá skal á krossi deya; ósk þeirra ein sú var.

3. Ord og assokun gyldti, engin í þessum stad, heiptin svo hugann fyllti, hjartad vard forblindad; sídast þeir sögdu þad: ljóslega lífs-straffs kresdi, lögmálid, því hann hefdi, gjört sig Guds Syni ad.

4. Rétt lög, sem ritud finnast, rángfærdu Júdar hér, ofs ber þar á ad minnast, ill dæmi fordumst vér, dómurinn Drottins er, hinn þó med heiptum klagi, og hreinann sannleik aflagi; sjái Valds-menn ad sér.

5. Þá eg heyri, minn Herra! hvèrsu þú qvalinn varst, gjörvöll vill gledin þverra, gadstú mín nærsta hardt, því eg braut mik-id og margt; en þá mér Gudspjöll greina,

gløggt þitt sakleysi hreina, hjartad fær huggun snart.

6. Athuga, sál mín! ættum, útgaungu Drottins hér, svo vid rétt minnast mættum, hvad miskun hans veitti þér; hyggjum ad, hann út ber, þyrni-kórónu þétta, þar med purpurann létta, blár og blódugur er.

7. Med blód-skuld og bølvun stránga, beiskum reird qvala-hnút, áttum vid greidt ad gánga, frá Guds nád rekin út, hrakin í heljar sút, íklædd forsmánar slíkum, frá-skúfud Drottni ríkum, nakin og nidurlút.

8. O synd! ó syndin arga! hvad íllt kémur af þér? ó hversu meinsemd marga, má Drottinn lída hér! þitt gjald allt þetta er, blindad hold þig ei þeckti, þegar þín slærd mig bleckti. Jesús miskuni mér!

9. En med því út var leiddur, alsærdur Lausnarinn, gjørdist mér vegur greiddur, í Guds nádar-ríki inn, og eilíft líf annad sinn, blódskuld og bølvun mína, burt-tók Guds Sonar pína. Dýrd sé þér, Drottinn minn!

10. Utgeng eg ætíd sídan, í trausti Frelsarans, undir blæ himins blídann, blessadur

víst til samts, nú fyrir nafnid hans, útborid lík mitt lidid, legst og hvílist í fridi, sál fer til sælu-ranns.

**11.** Dýrdar Kórónu dýra, Drottinn gèf-ur mér þá, réttlætis skrúdann skíra, skal eg og einnig fá, upprisu-deginum á, hærstum heidri tilreiddur, af heilögum Englum leidd-ur, í sælu þeim sjálfum hjá.

**12.** Svo munu Guds Englar segja: sjáid nú þennann mann! hvern allskyns eymd réd beygja, ádur í heimsins rann, opt var þá hreldur hann, fyrir blód Lambsins blída, búinn er nú ad strída, og sælann sig-ur vann.

**13.** Þá muntú, sál mín! svara, sýng-jandi fögrum tón; lof sé mínum Lausnara! lamb Guds á hærsta trón, sigur gaf sínum þjón, um blessadar himnahallir, honum segjum vér allir, heidur, med sætum són!

**14.** Son Guds ertú med sanni, Sonur Guds, Jesú minn! Son Guds, syndugum manni, sonar-arf skenktir þinn, Son Guds einn eingétinn; Syni Guds sýngi gladur, sérhverr lifandi madur, heidur í hvert eitt sinn!

# 26. Sálmur.

## Samtal Pílatí við Kristum.

Lagið: Hærsti Guð Herra mildi.

Nér þá um Guðs Son heyrði, heiðinn Landsdómari, hann spyr (því hræðast gjörði): hvaðan vor Drottinn sé? en Jesús þýður þagði, (það og vel maklegt var); Pílatus brádt að bragði, bistist og aptur sagði: vilt þú ei veita svar?

2. Mín er, það mátt þú játa, maktin svo tignarlig, eg má vel lausann láta, líka krossfesta þig. Jesús svarar og segir: síst átt þú vald á mér, ef þér væri það eigi, að ofan géfið, svo megir, heiðri þeim halda hér.

3. Sá hefir synd enn meiri, er seldi mig þér á hönd. Pílatus hygg eg það heyri, hann grundar málin vönd. Gjörði strax grida leita, gáfu Prestarnir ans: vægð ef þessum vilt veita, víst mátt þú ecki heita, kjær vinur Keisarans.

4. Heidíngjar halba gjerdu, hjá-gudir þeirra senn, börn ættu alin á jörðu, eins

og holdlegir menn; hann óttast hér ef væri, Herrann Godanna kyns, hugdi því helst ad bæri, hyggilega framfæri, ransókn réttdæmisins.

5. Skurdgod sín heidnir héldu, hafandi í mestu akt, forgéfins hug sinn hreldu, hræddir vid þeirra makt; ó! hversu framar ætti, einn sérhverr kristinn mann, óttast Drottins almætti, med ást og blygdunar hætti, sem stollum steypa kann.

6. Af stórri makt sig réd stæra, stoltur Pílatus hér, rétt mál til rángs ad færa, reiknadi leyfilegt sér; kann vera margann megi, meiníng sú villa þrátt, þó løgin brjóti og beygi, bannad sé þeim þad eigi, fyrst vald þeir hafa hátt.

7. Gud er sá voldin géfur, gæti þess ædri stétt, sitt léni hverr einn hefur, hér af Drottni tilsett, hann lét þig, heidur hljóta, heidrast því-af þér vill; virdíngar vel mátt njóta, en varast drambsemi ljóta, róg og rángindin ill.

8. Yfirvald einn Gud sendi, undirmenn gæti þar ad, sverd Drottins hefir í hendi, heidra skulum vér þad, hlýdugir fridi

haldá, hlífð og forsvari ná, hverlyndis þrjótskan! kalda, þúnglegri hefndar-gjalda, að vísu sér vænta má.–

9. Eins sem hverr einn misbrýtur, eptir því straffast hann, hardari hefndir hlýtur, hinn sá meira tilvann; þeim mun ei plágan hverra, sem þrjótskast í synda-rót, sá þjón á von hins verra, sem vilja þeckir síns Herra, þó gjörir þvert á mót.

10. Vardveiti Valdsmenn alla, vor Guð í sinni stétt, svo varist í vondsku' að falla, vel slundi leg og rétt; hinir í hlýðni standi, hverr svo, sem skyldugt er, hrein trú og helgur vandi, haldist í voru landi, Amen, þess óskum vér!

## 27. Sálmur.

### Pílati samtal við Gydinga á dómstólnum.

Lagið: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Pílatus heyrdi hótað var, honum Keisarans reiði þar, útleiddi Jesúm annað sinn, uppsetst þegar á dómstólinn.

2. Gydingum síðan sagði hér: sjáið þar ydar Kóngur er. Þeir báðu: tak

þennann burt frá oss; bráðlega lát hann deyja á kross.

3. Skal eg krossfesta Kóng ydvarn? kallar Pílatus hædnis = giarn; engann Kóng segja þeir aptur hér, utan Keis=arann høfum vér.

4. Gudspjalls historian hermir frá, heiti sá stadur Gabbatha, háa steinstræti þýdir þad. Þar mátt þú, sál mín! gæta ad.

5. Vei þeim dómara' er veit og sjer, víst hvad um málid réttast er, vinnur þad þó fyrir vinskap manns, ad vikja af gøtu sannleikans.

6. Pílatus Keisarans hræddist heipt, ef honum yrdi' úr vøldum steypt, þetta sem helst nú varast vann, vard þó ad koma yf=ir hann.

7. O vei! þeim sem ad órétt løg, um=gángast og þau tídka mjøg, sannleiknum meta sitt gagn meir, svívirdíng Drottni gjøra þeir.

8. Huga sný eg og máli mín, minn gódi Jesús! enn til þín: Pílatus Kóng þig kallar hér, krossfestíng Júdar óska þér.

9. Víst ertú, Jesú! Kóngur klár, Kóngur dýrðar um eilíf ár, Kóngur Englanna, Kóngur vor, Kóngur almættis tignar-stór.

10. Þó stóðstú bundinn þar fyrir dóm, þó leidstú hróp og qvala-róm, afsegja gjerdu allir þig, undrar stórlega þetta mig.

11. O Jesú! það er játning mín: jeg mun um síðir njóta þín, þegar þú, dýrðar Drottinn minn! dómstól í skýjum setur þinn.

12. Frelsadur kém eg þá fyrir þinn dóm, fagnadar-sælann heyr' eg róm, í þínu nafni útvaldir, útvalinn kalla mig hjá sér.

13. Kóng minn, Jesú! eg kalla þig, kalla þú þræl þinn aptur mig, Herra-tign enga' ad heimsins sið, held eg þar mega jafnast við.

14. Háa stein-strætid heimsins sleipt, hefir mér opt í vanda steypt, þángad lét Jesús leida sig, svo líknin hans komi yfir mig.

15. Jesú! þín kristni kýs þig nú, Kóngur hennar einn heitir þú, stjórn þín henni

svo haldi vid, ad himneskum náï dýrdar frid!

## 28. Sálmur.

### Um Pílati handa-þvott og dóm.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Pílatus sá ad sennu þar, sín ráð máttu ei gylda par, upphlaup sér búid hrædd- ist hann, hugdi ad stilla vanda þann, fullnægja vildi fólksins bón, sá skyldi Jesús daudans tjón, sannleika engum sinnti meir, svo dæmdi allt, sem beiddu þeir.

2. Hendur í vatni þar nam þvo, þar nærst vid Júda mælti svo: sjálfir um ydur sjái þér, saklaus vid réttláts blód eg er. Allur almúginn uppá þad, and- svarar greidt í þessum stad: hans blód (þó nú hann quelji kross), komi' yfir børnin vor og oss!

3. Pílatus hafdi prófad þar, píslar-søk Drottins engin var, fyrir og eptir eins réd hann, úrskurda Jesúm saklausann, þó mót samvitsku sinni þvert, sjálfur viljandi dæmdi bert. Gud gefi ad Yfirvøldin vor, varist þau dæmin glæpastór!

4. Hvad margur nú í heiminum, hér fyrir laskar Pílatum, sem þó elskar og ydkar mest, athæfi hans og dæmin vest? óttinn í dómi opt fær sess, Yfir-Herrarnir njóta þess; almúgans hrøsun olli því, illgjarnir skálkar hlaupa frí.

5. Abata-von og vina-hót, verkin dylja, þó séu ljót, líka kémur sú fordild fram, sem forsvarad gétur Barrabam; gétst þá raunin hvad gylda skal, gull-túngan sú, sem Achan stal, máské og þyggi mútur hinn, meir enn Pílatus þetta sinn.

6. Eg spyr: hvad veldur ódygd flest, eykst nær daglega og fjølgar mest? umsjónarleysi er orsøk hærst, egin gagnsmunir þessu nærst, miskun, sem heitir skálka-skjól, skygnist eptir um fánýtt hól, óttin løgin svo þvíngar þrátt, þora þau ecki ad líta hátt.

7. Fyrir fólkinu þegar þar, þvodi Pílatus hendurnar, fyrir Gudi, sér þann gjørdi grun, gylda muni sú afsøkun. Varastú, madur! heimsku hans, hér þó þú villir sjónir manns, almáttugs Drottins augsýn skjær, allt þitt hjarta ransakad fær.

8. Viltú þig þvo, þá þvo þú hreint, þel hjartans bædi ljóst og leynt, ein laug er þar til edla góð, ydrunar-tár og Jesú blód; grát þína synd, en set þitt traust, á Sonar Guds pínu efalaust, lát af íllu, en ydka gott, allann varastú hræsnis þvott.

9. Blóds-hefnd á sig og børn sín med, blindadur lýdur hrópa réd, eflðist svo þessi óskin kold, enn í dag bera þeir hennar gjøld; athuga-gjarn og ordvar sért, einkum þegar þú reidur ert, formæling íllann finnur stad, sást mega dæmin uppá þad.

10. Drottinn Jesú! sem dæmdur varst, dómari kémur þú optur snart, Dóms-menn láttú til dýrdar þér, Dómana vanda rétt, sem ber; þvo þú vor hjørtu' og hendur med, hrein trú vardveiti rósamt géd; þitt blód flecklaust, sem flódi' á kross, frelsi þad børnin vor og oss!

## 29. Sálmur.

Um Barrabas frelsi.

Lagid: Eins og sitt barn, fadir áslargjarn.

Seldi Pílatus saklausann, Son Guds til krossins dauda; upphlaups-madur

sá víg eitt vann, þá frelsi fann, féck líf, en misti nauda.

2. I mirkva-stofu sá bundinn beid, Barrabbas trú' eg hann heiti. Ná hér finnast ein merkíng greid, um mannkyns neyd, mjøg skír ad øllu leiti.

3. Barrabbas frá eg Fødurs nid, flestir lærdir menn þýdi: Adam líkist þar eflaust vid, og allt hans lid, sem áfell daudans qvidi.

4. Upphlaups-madur hann ordin var, þá eplid í munn sér leiddi, sjálfs Guds bodordi sinnti' ei par, og sídan þar, sig og allt mannkyn deyddi.

5. I djøfuls fjøtrum fastur lá, fánginn til eilífs dauda: allir hans nidjar útífrá, med eymd og þrá, áttú von qvala' og nauda.

6. Hér þá Jesú var helid kaldt, af heidnu dæmt Yfirvaldi, féck Adam aptur frelsid snjallt, og fólk hans allt, sem fagnar því lausnar gjaldi.

7. Nú fyrst eg Adams nidji er, nær mér gengur þad dæmi; sál mín! set slíkt

fyrir sjónir þér, og sjádú hér, saunferdugt lær=dóms næmi.

8. O! hvad opt hef' eg aumur gért, uppreisn mót Drottins anda! daglega því hans bodord bert, svo brant eg þvert, mér bar þó í hlýdni' ad standa.

9. Nun og ecki v'd manndráp frí, mína sál þrátt eg deyddi, íll dæmin gáfust af mér ný, og naudir í, náúngann þar med leiddi.

10. Ofrægur er eg ordinn mest, allar sképnur þad sanna, fárádum eckért forsvar sjest, fángelsid vest, fyrir því hlýt eg kanna.

11. Í myrkvastofu' eg bundinn bíd, bölvan lögmáls mig hrædir, dapurt nálæg=íst daudans stríd, og dómsins tíd, dáglega sorgin mædir.

12, Heyri eg nú þann hjálpar róm: ad hafir þú, Jesú mildi! fyrir mig lidid líflát dóm, þín líknin fróm, lausann mig kaupa vildi.

13. Sú heilaga' aflausn hrigd og sút, af hjarta mínn greidir, syndanna leysir

hlekkja=hnút, og hér næst út, úr hørdu fángelsi leidir.

**14.** Hvad dauda saknæmt sást á mér, (svoddan eg miskun þekki), til dauda allt var dæmt á þér, minn Drottinn! hér, dóminum qvídi' eg ekki.

**15.** Líf mitt og sál þig lofar nú, leyst frá daudans fángelsi, eg lifi' eda dey, það er mín trú, óbrigdul sú, í þinu, Jesú! frelsi.

**16.** Himneskri Páska=hátíd á, hef' eg'nú þess ad bída, mirkvastofunni frelsiur frá, eg fagna þá, í flocki' útvaldra lýda.

**17.** Svo er nú Barrabbas ordinn frí, Adams og eg hans nidji; hver kristin sála heimi í, vorn Herra því, heidri, lofi, tilbidji!

## 30. Sálmur.

### Um Kristí kross=burd.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Stríds=menn Krist úr kápu færdu, og klæddu hann sínum búníng' í, sollnar undir sárt vid hrærdu, þær svidu' og blæddu uppá ný, á blessudu sínu baki

færdu, hann bar sinn kroſs og mæddist því.

2. Skédi svo á samri stundu, Símon nockurn bar þar ad, framandi mann, er géck um gryndu; gripu Júdar hann í stad, krossinum á hans herdar hrundu, hann géckst naudugur undir þad.

3. Þeir, sem (sál mín!) syndir drýgja, samvitskunni þvert á 'mót, undir Drotlins endurnýja, ef ecki gjora á løstum bót; vid skulum frá þeim flocki flýja, og fyrirgéfníngar bidja' af rót.

4. Uppá heimsins óþacklæti, er hér dæmi ljóst til sanns, margann læknadi Son Guds sæti, sjúkann medal almúgans, nú var ei neinn, sem bølid bæti, og bæri med honum krossinn hans.

5. Símon bædi' og syni hans báda, sjálf hér nefnir historían, gudhræddur skal njóta náda, og nidjar margir eptir hann, miskunsemd vid menn fáráda, minnast Gud og launa kann.

6. Framandi madur meint-Kristi, med honum bar hans bánga kroſs. Hér má finna, hvern þad lystir, hreina þýding uppá

oss, Gydínga fólk þá Guðs náð misti, gafst Heidíngjum dýrdar hnoss.

7. Synda undir ýfast mínar, opt á hverri stundu nær, samvitsku nar sorg ei dvínar, svida-meinid ílla grær, blessadar, Jesú! benjar þínar, bid eg mýki' og lækni þær.

8. Þessi krossins þúnga byrdi, þér var, Drottinn! lögd á bak, svo fyriminndan fyllt sú yrdi, þá fórnar-vidinn bar Isaak, sá þinn gángurinn forgar styrdi, af sálu minni tók ómak.

9. Minnist eg á þjáníng þína, þig sú mæddi byrdin stríd, sannlega' fyrir sálu mína, svoddan leid þín gædskan blíd; vegna þess mér virdstú' ad sýna, vorkunsemi nær eg líd.

10. Hold er tregt, minn Herra mildi! í hörmúngunum ad fylgja þér, þó eg feginn feta vildi, fótspor þín sem skyldugt er, viljinn minn er í veiku gyldi, þú verdur því ad hjálpa mér.

11. Elsku géd svo þitt eg þecki, þjádum vilrú sína lid, láttu mig, Drottinn! einanngedi, í ánaud minni' þess eg bid, naf..d mitt,

þó nauðir þnecki, náð þín blessuð kannist við.

12. Komir þú undir krossinn stránga, kristin sála! gæt þess hér, ef holdið tekur að mögla' og márga, minnstú hver þín skyldan er, láttú, sem þú sjáir gánga, sjálfann Jesúm undan þér.

13. Undir krossi illvirkjanna, aldrei hér þig finna lát, varastú glæpi vondra manna, á verkum þínum hafðú gát, ydka bæn og ydrun sanna, elska gjarnan hóf og mát.

14. Haf þú, Jesú! mig í minni, mæðú' og dauðans hrelling stytt; börn mín hjá þér forsjón finni, frá þeim øllum vanda' hritt, láttú standa' á lífs-bók þinni, líka þeirra nöfn, sem mitt!

## 31. Sálmur.

Predikun Kristí fyrir qvinnunum.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Fólkið, sem Drottni fylgdi út, fylltist margt ángri hörðu, qvinnurnar grétu sárt með sút, sem hans qvøl aumka gjörðu.

2. Snéri til þeirra Son Guðs sér, sagði þá Herrann mætur: grátið þér ecki yfir mér, ó! Jerúsalems dætur!

3. Sonu yðar og egin eymd, eflaust þér gráta megið, nálgast sú tíð, sem nú er geymd, nær þér harmandi segið:

4. Sæl nú óbyrjan barnlaus er, og brjóst þau ei sogin vóru, hrynji yfir oss hálsarnir, hæðir og fjöllin stóru.

5. Ef gjört er svo við það græna tré, (gæti hverr til þess næði), hvað hið þornaða þá mun ské? það trú' eg Jesús ræði.

6. Ó! hvað veraldar virðíng er, völt og svikul að reyna, gjæt þess, mín sál! og skoðú hér, sannprófað dæmið eina:

7. Á Pálma-sunnudag sjálfur inn, Son Guðs í borg nam ríða, ástvinir hans það sama finn, súngu lof án alls kvíða.

8. Fám dögum síðar sjálfur út, færður með kross nam gánga, það hlutu' hans vinir að sjá með sút, sorg hjartans báru stranga.

9. Hafi' svo verið völl og flá, veröldin Herra sínum, hvers má sér vænta þrælkinn þá? þess gæt í huga þínum.

10. Þeim, sem hún býður blíðleik sinn, búin er sorgin mesta; hirðtú því, aldrei huga þinn, við hana, mín sál! að festa.

11. Sannlega skyldugt segi' eg mér, sára þá qvöl að gráta, sem, Drottinn Jesú! þúngt að þér, þreyngdi í allann máta.

12. Samt er þér ecki þént með því; þótt eg þig aumka vildi, ellífa hátign ertú í, upphafinn, Jesú mildi!

13. Þar má nú heldur aukast af, ángur samvitsku minnar, orsök eg til og efni gaf, allrar hörmúngar þinnar.

14. Erfiði hef' eg aukið þér, ofþúngt með syndum mínum, glæpanna, sem eg gjörði hér, galdstú á holdi þínu.

15. Hræðist eg mér sé hulin geymd, sú hefndar pínan stránga, því eg vann til að eilíf eymd, yfir mig skyldi gánga.

16. En þó gleð eg mig aptur við, ávöxtinn qvala þinna, þaraf ödlast eg frelsi' og frið, og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgar-fól, er sál' helst þjáðu mína, snýst í fögnuð og feginn-grát, fyrir þá miskun þína.

18 Bið eg nú, Jesú blíði! þig, sem bót mér gjørðir vinna: lát engann gjalda eptir mig, íllsku né synda minna!

## 32. Sálmur.

Um græna og visna tréð.

Lagið: Nú kom heiðinna hjálpar=ráð.

Greinir Jesús um græna tréð, getur hins visna einnig með. Við skulum sál mín! skoða' á ný, skíránn lærdóm á máli því.

2. Frjófgunar eikin vöknuð væn, vel=blómguð stóð með laufin græn, þegar á jørðu sást til sanns, Son Guðs íklæddur holdi manns.

3. Lífsins ávexti ljúfa bar, læknaði Jesús sóttirnar, frá djøfli leysti' og dauðans pín, daufum gaf heyrn, en blindum sýn.

4. Af hverri grein draup hunáng sætt, hjálpræðis kénníng' fékk hann rætt, øll hans umgengni ástúðlig, ángráðar sálir gladdi mjøg.

5. Guði var þekt það græna tréð, gleddust himnar og jørðin með; í hans

fæding þad vitnaſt vann, og vid Jórdan, þá ſkírdiſt hann.

6. Réttlætis allann ávøxt bar, inn-til kroſs-dauda hlýdinn var, ſaklauſa lambid Son Guds einn, af ſynd og lýtum klár og hreinn.

7. Þó mátti ei þad edla tré, ángurlauſt vera' á jørdunne, Guds reidi ſtormur geyſa vann, gécf því refſíngin yfir hann.

8. Ef þú ſpyr ad: hvad valda vann, vildi Gud láta ſaklauſann, Soninn komaſt í ſorgir þær, ſem honum var þó hjarta kjær?

9. Þú ſkalt vita ad viſnad tré, var mannkyn allt á jørdunne, ofan ad rótum uppþornad, ávøxt ránglætis færdi þad.

10. Skadſemdar tréd ſem ſkémdi jørd, ſkipadi Drottins reidi hørd, upphøggva, ſvo þad ecki þar, akrinum ſé til ſpillíngar.

11. Vor Jeſús mønnum vægdar bad, vinnaſt mátti' ei ad fengiſt þad, utan hann tæki uppá ſig, ílluerka gjøldin hriggilig.

12. Herrann íklæddiſt holdi þá, híngad kom til vor jørdu á, viſnadri eik gæfſt

vekvan góð, þá varð úthellt hans dýra blóð.

13. Saklaus því leið hann sorg og háð, syndugt mannkyn svo fengi náð, hið græna tréð var hrakið og hrist, hér af það visna blómgaðist.

14. Guðs dýrðar færi sitt hold í, Sonurinn mátti' ei hefja því, fyrr enn í heimi harða neyð, hafði þolað og krossins deyð.

15. O! hvað manns hold er heimsku fyllt, hryggilega úr máta villt, viljandi í lostum liggur það, leikur sér allskyns glæpum að.

16. Margir ætla fyrst ekki strax, á fellur hefndin sama dags, Drottinn þá aldrei muni meir, minnast á það, sem gjörðu þeir.

17. Því góða trénu þyrmt var síst, þurrum fauskinum þá bálið víst; hafi Faðirinn hirt sinn Son, hefndar mun þrællinn ega von.

18. Ef nú Guðs mildin ástúðlig, ó-hegnda, sál mín! líður þig, hans þolinmæði haldtu hér, hjálpræðis meðal gefið þér.

19. Vísnad tré eg ad vísu er, vægdú, réttlætis Herra! mér, gædskunnar eikin græn og fín, geymdú mig undir skugga þín.

20. Von er ad mér sé mótkast víst, mun eg umflýa daudann síst, holdid má ei fyrir utan kross, eignast á himnum dýrdar hnoss.

21. Tæpti eg mínum trúar-staf, á tréd, sem drýpur hunáng af, sjón hjartans øllu ángri í, upplýsist nær eg smacka' af því.

22. Þegar mér gánga þrautir nær, þér snúi þú til mín, Jesú kjær! hjartad hressi og hyga minn, himneskur nádar-vøkvi þinn!

## 33. Sálmur.

### Um Kristí krossfesting.

Lagid: Koníng Davíd, sem kénndi.

Kom loks med krossins byrdi, Kristur í Hausa-stad: (ørþjádur frá eg hann yrdi) edik galli blandad, honum þeir héldu ad: Drottinn vor dýrdar mildi, drecka þó ecki vildi, þá hann smackadi þad.

2. Fals undir føgru máli, fordildar hræsnin ber, vinátta temprud táli, og trúarlaus ydran hér, edik gall-blandad er

svoddan súrdreggja víni, (þó sjálft glis-lega skíni), Herrann hrindir frá sér.

3. Það tek eg víst til þakka, þá þú vilt, Drottinn kjær! súrt með þér sjálfum smakka. Sé þín miskunin skjær, í hverri neyð mér nær! gall-beiskju bölvunarinnar, og bikarinn heiptarinnar, burttak þú frá mér fjær!

4. Nakinn Jesúm á jörðu, Júdar krossfestu þar, með heiptar sinni hörðu, hendur og fæturnar, teygt allt og togað var, geck svo járn-gaddur nístur, gegnum lófa og ristur, skinn og bein sundur skar.

5. Tveggja morðíngja milli, miskunnar Herrann héck, spádóminn frá eg svo fylli, sem fyrr meir um það geck, ræðir svo Ritníng þeck: Þjón minn sá einn útval-inn, er með spillvirkjum talinn, forsmán mjög þúnga fékk.

6. Nú eg minnist á næsta, nakinn þá Adam stóð, við tréð með hörmúng hæsta, hjarta-sorg, bol og móð, því verk hans vóru' ei góð: innvortis ángrið ovaldi, undir trjánum sig faldi; þess galdt öll heimsins þjóð.

7. Nú aptur Jesús nakinn, neglður á tréuu stóð, píndur, húðstrýktur, hrakinn, hjartans bar sárann móð, þó vóru' øll verk hans góð: einn fyrir engum faldist, opinberlega qvaldist, þess naut øll heimsins þjóð.

8. Horsi' eg á hendur þínar, Herra minn Jesú kjær! fyrir misgjørðir mínar, meinin slík liðu þær, blóð-dreirinn dundi skjær, saurgun sálar og handa, sem mér komu í vanda, af hreint með øllu þvær.

9. Fús var eg fram að halda, ferit glæpanna hér, þess fætur þínir gjalda, það varð til líknar mér: Drottinn! eg þakka þér, fram á friðarins leiðir, fótspor mín jafnan greiðir, héðan af hvar eg fer.

10. Guð gæfi! mitt hold mætti, með þér krossfestast nú, frá øllum íllsku hætti, ósk mín er dagleg sú, minn Herra! það veitst þú, uppá það ønd mín kynni, óhindruð gæðsku þinni, þjóna með þýðri trú.

11. Einn með íllræðis-mønnum, allir þig héldu þá, sem í heilagleik sønnum, sjálfur komst himnum frá, nú eg þess njóta má, af því eg er útvalinn, með

ødrum Guds børnum talinn, þar treysti' eg eflaust á.

12. Eg mun æ medan hjárí, minnast á krossinn þinn, heimsins ljúfi Lausnari! lífgar þad huga minn, hvert eg geng út eda inn, af innstum ástar-grunni, ætíd med hjarta og munni, segjandi hvert eitt sinn:

13. Jesú Kristí qvøl eina, á krossinum fyrir oss skén, sé mín sáttargjørd hreina, og synda-qvittunin, af sjálfum Gudi sjen, uppá þad ønd mín vonar, í nafni Fødurs og Sonar, og heilags Anda', Amen!

## 34. Sálmur.

### Fyrsta ord Kristí á krossinum.

Lagid: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Þegar qvalarar krossinn á, keira vorn Herra gjørdu, flatur med trénu lagdur lá, Lausnarinn nidur á jørdu, andlitid horfdi í þeim stad, og augun hans blessud himinum ad, hann stundi' af ángri hørdu.

2. Sinn fadm allt eins og barnid blídt, breiddi mót Fødurnum kjæra, blódid dundi og tárin tídt, titradi holdid skjæra. Hér

skoda, madur! huga þinn, hvad kunni meira nockurt sinn, Drottinn til hefndar hræra?

3. Óvinum fridar blídur bad, brunnur miskunarinnar, hann vill þeir njóti einninn ad, ávaxtar pínu sinnar, sagdi: Fadir, þeim fyrirgéf þú! forblindadir ei vita nú, sjálfir hvad vondt þeir vinna.

4. Lausnara þínum lærdú af, luxderni þitt ad stilla, hógværdar dæmi gott hann gaf, nær gjøra menn þér til ílla: blót og formælíng varast vel, á vald Guds allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

5. Þótt þú vid adra saklaus sért, sannlega skalt þess gjæta, samt fyrir Gudi sekur ert, sá á þig frjálst ad græta; íllir menn eru' í hendi hans, hirtíngar-vøndur syndugs manns, enginn kann þess ad þræta.

6. Óvinum ílls þó óskir hér, ei minkar heiptin þeirra, ókolinmædi eykur þér, afrækir bod þíns Herra, þú styggir Gud med svoddan sid, samvitskan mjög þar skurlast vid, tjón þitt verdur því verra.

7. Upplýstú hug og hjarta mitt, Herra minn Jesú sæti! svo að eg dýrðar dæmið þitt, daglega stundað gæti; þeir, sem óforþént ángra mig, óska eg helst að betri sig, svo hjá þér miskun mæti.

8. Heimsins og djøfuls hreckja-vél, holdið þrálega villa, þess vegna ecki þeckí eg vel, þó nú margt gjøri eg illa; beri svo til eg blindist hér, bið þú þá, Jesú! fyrir mér, það mun hefnd harða stilla.

9. Eg má vel reikna aumann mig, einn í flock þeirra manna, sem í qvølinni þjáðu þig, það vóru gjøld syndanna; en þú, sem bættir brot mín hér, bið þú og líka fyrir mér, svo fái eg frelsun sanna.

10. Fyrst þú baðst friðar fyrir þá, er forsmán þér gjørðu mesta, vissulega eg vita má, viltú mér allt hið besta; því eg er Guðs barn og bróðir þinn, blessaði Jesú Herra minn! náð kann mig nú ei bresta.

11. Allra síðast þá eg á hér, andláti mínu að gégna, sé þá, minn Guð! fyrir sjónum þér, Sonar þíns pínan megne, þegar hann lagður lágt á tré, leit til þín

augum grátandi, vægðú mér þá hans vegna!

## 35. Sálmur.

### Um yfirskriftina á krossinum.

Lagið: Náttúran öll og eðli manns.

Yfirskrift Pílatus eina lét, yfir krossinum standa; Jesús nefndur af Nazareth, nýr Kóngur Gyðinga landa, (Drottni með sann, Dómarinn fann, dauða sök enga stærri). Margur las það, í þessum stað, því hann var borg svo nærri.

2. Það var ritað og þanninn sett, í þrennslags túngumáli. Valds-menn Júða það vissu rétt, vilja því Pílatus brjáli; hann ansar greiðt, ei skyldi neitt, umbreytt og framar tjáði: hvað skrifað er, skal standa hér. Svo skéði' af Drottins ráði.

3. Þar nú á krossi Herrann hékk, hér að, mín sála! gætum, virðíngar titil fagran fékk, með forprís saklaysis mætum, að hjálpar-fús, heitir Jesús, heimfús Lausnarinn góði, hverr djefli frá, oss frelsa má, flecklaus með sínu blóði.

4. Nazarenus hann nefnist þar, náttúru spillíng manna, fráskilinn einn að vísa

var, velþekka hlýdni sanna, sýndi hann hreint, ljóst bædi' og leynt, lifanda Gudi einum, hans tignar Son, trúr, forsjáll þjón, tryggur í øllum greinum.

5. Kóngur Gydínga klár og hreinn, í krapti gudlegum drottnar, sá Davíds stól skal erfa einn, aldrei hans ríki þrotnar, Israels hrós, heidinna ljós, heitinn forfedrum lengi, svoddan titil, sómdi rétt vel, sál mín! þinn Herra fengi.

6. Svoddan virdíngu vildu hann, vondir Gydíngar sneyda, beiptar øfundin í þeim brann, af því Pílatum beida: ordtak þad brádt, á annann hátt, úrfæra settum máta; hann qvad vid nei, því þad vill ei, þeim Drottinn veitast láta.

7. Dramblátum setur Drottinn skamt, med djørfúng sína' og hrecki, þeim lídst svo sem hann leyfir framt, lengra komast þeir ecki; allt skal mitt traust, efunarlaust, á hans makt jafnan standa, hvad munu mér, þá mennirnir, mega í nockru granda?

8. I þrennslags túngum var þetta skráð, þvíad vor Herrann mildi, vildi sín elska, ást og náð, allri þjód birtast skyldi;

hvert túngumál, með huga' og sál, heiðri þig, Jesú góði! sem qvölin þín, og krossins pín, keypti frá synda móði.

9. Gefðu að móðurmálið mitt, minn Drottinn! þess eg beiði, frá allri villu klárt og qvitt, krossins orð þitt útbreiði, um landið hér, til heiðurs þér, helst mun það blessun valda, meðan þín náð, lætur vort láð, lýði og bygðum halda.

10. Handskrift var ein yfir höfði mér, hún mína sálu grætti, önnur stóð, Jesú! yfir þér, sem ángur vors hjarta bætti; Jesú! þú ert, útvalinn vert, undir Kóngsstjórnun þinni, árla og síð, um alla tíð, óhætt er sálu minni.

## 36. Sálmur.

### Um skiptin á Kristí klæðum.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Stríðs-menn þá höfðu krossfest Krist, klæðnað hans tóku snart, skiptu í staði fjóra fyrst, fá skyldi hverr sinn part, á kyrtil prjónaðann ljóst með list, lögðu þeir hlutfall djarft, fólskuverk meðan fullgjörðist, fólkið á horfði margt.

2. Ritníng sú eina uppfyllt er, ádur var þar um skráð: skrúda minum þeir skiptu sér, skírlega það er tjáð: hlutfallið yfir fat mitt fer, sæ eg þess einninn gáð. Set madur slíkt fyrir sjónir þér, sjá Drottins miklu náð.

3. Nú mátti skilja nakinn var, negldur Drottinn á kross, opinbert sáu allir þar, útrunninn dreyra-foss; svoddan forsmán Guds Sonur bar, sannlega fyrir oss, hér géfst ollum án hylmíngar, himneskt miskunar hnoss.

4. Kalla eg merki klædin hans, Kristnina' í heimi hér, um fjórar áttir foldarranns, flockur sá dreifdi sér; lík-kyrtill þessi Lausnarans, líknar-ord blessad er, vilji því skipta skynsemd manns, skilníng sannleiksins þver.

5. Ei lét vor Drottinn audlegd há, eptir í þessum heim, klædin, sem hann bar holdi á, en hverki gull né seim, þó mátti ei hans módir fá, hid minnsta' af ollum þeim, illir menn hendi yfir þau slá, aldrei því dæmi gleym.

6. Safna hóflega heimsins aud, hugsýkin sturlar géd; þygg af Drottni þitt dag-

legst' brauð, duga lát þér þar með; holdið þá jörðin hylur rauð, hlotnast má ýmsum féð, svo þig ei ginni girndin snauð, gæt vel hvað hér er skéð.

7. Stríðs-manna heipt og harðýðge,, Herrans qvøl gat ei mýkt, þó viti nóg hann særður sé, sinnið var illsku-ríkt. Þeir, sem fátækann firra fé, fólsku-verk drýgja slíkt; Guð láti þig ei glæp þann ské, þú gjerir annað þvílíkt!

8. Nakinn á krossi hékkstú hér, Herra minn Guð og mann! fullnaðar borgun fengin er, fyrir mig syndugann, þá fórn Drottinn og sál mín sjer, sú gleðst en blíðkast hann, brúðkaups klæðnað tilbjóstú mér, þann besta' eg girnast kann.

9. Hentuglega féll hlutur sá, Herra minn Jesú kjær! þú létst mig aumann finna' og fá, fagnaðar orð þín skjær, þeim klæðafalði þreifa' eg á, þegar mig hrigðin slær, straumur eymdanna stoðvast þá, styrk nýaun hjartað fær.

10. Hér þó nú skipti heimurinn, hlæandi auði sín, endast sá glaumur eitthvert sinn, þá æfin lífsins dvín; mér láttú

hlotnast, Herra minn! hlutfall nærst krossi þín, svo dýrdar fegursti dreyri þinn, drjúpi á sálu mín!

## 37. Sálmur.

### Annad ord Kristi á krossinum.

Lagid: Vari nú Gud oss ecki hjá.

Uppreistum krossi Herrans hjá, hans módir standa nádi, sverdid, sem fyrr réd Símeon spá, sál og líf hennar þjádi, Jóhannes einnig Jesú kjær, jafnt var þar líka staddur nær, gloggt sá ad øllu gádi.

2. Sinni módur hann segja réd: Son þinn lít þú þar qvinna; vid lærisveininn líka med, Lausnarinn blídt nam inna: sjá þú og módur þína þar, þadan í frá (sem skyldugt var), sá tók hana til sinna.

3. Sá sem hlýdninnar setti bod, sinni blessum réd heita, þeim er foreldrum styrk og stod, stunda med elsku ad veita; svoddan dygdanna dæmid hér, Drottinn vor sjálfur gaf af sér, bornunum eptir ad breyta.

4. Girnist þú, barn mitt! blessun fá, bjørg lífs og gæfu sína, foreldrum skaltu

þínum þá, þóknun og hlýðni sýna; úngdóms þverlyndið optast nær, ólucku' og slís að launum fær, hreckvísa hefndir pína.

5. Eckjurnar finna einninn hér, ágætis huggun blíða; Jesús allt þeirra ángur sjer, umsjón þeim veitir fríða, ef þær með hreinum hug' og sið, halda sig Drottins pínu við, og hans hjálprædis bíða.

6. María Drottins móðir kjær, merkir Guðs kristni sanna, undir krossinum optastnær, ángur og sorg má kanna, til hennar lítur þó Herrann hýrt, huggunar orðið sendir dýrt, og forsjón frómra manna.

7. Það reyníst opt í heimi hér, hlutfall Drottins ástvina, hörmúnga sverðið sárt þá sker, sæld lífsins gledur hina, hverjir þó Kristum hata mest, hefir það laungum viðgengist, lítt vill því ángri lina.

8. Enn þeir, sem Jesúm elska' af rét, undir hans krossi standa, Herrans blóðfaðmi horfa mót, hvern þeir líta í anda, trúar og vonar sjónin sett, sár hans og benjar skoða rétt, það mýkir mein og vanda.

9. Jesús einninn með ást og náð, aptur til þeirra lítur, géfur hugsvolun, hjálp

og ráð, harma = beðð af þeim slítur, að-
gættin föðurs augum klár, öll reikn r sirna
barna tár, aðsíoð þau aldrei þrýtur.

**10.** Jeg lít beint á þig, Jesú min!
jafnan þá hrigðin særir; í mínum krossi
krossinn þinn, kroptuglega mig nærir; sér-
hvert einasta sárið þitt, samulega græðir
hjartað mitt, og nýann fögnuð færir.

**11.** Þá eg andvarpa, ósta' og bið, aug-
unum trúar minnar, lít eg hvert einast'
orðið við, upp til kross = pínu þinnar,
strax sýna mér þín signuð sár, syndugum
manni opin stár, brunnur blessunarinnar!

**12.** Gleðistund, holds þá géfur mér,
Guð minn að vilja sínum, uppá þig, Jesú!
horsi' eg hér, hjartans augunum mínum,
auðlegðar gæðin líkamleg, láttu þó aldrei
villa mig, frá krossins faðmi þínum.

**13.** Jónas sat undir einum lund, engra
meina því kéndi, hádegis sólar hita stund,
hann ei til skaða brendi; Jesú kross = skugga
skjólið hér, skýlir þó lángtum betur mér,
fyrir Guðs hefndar hendi.

**14.** Hvert eg sef, vaki, sit, eður st . í
sæ'u og hættum nauða, krossi þínum eg

held mig hjá, horfandi' á blód þitt rauda;
lát mig einninn þá æfin þver, útaf sofna
á fótum þér, svo qvídi' eg síst vid dauda.

## 38. Sálmur.

**Um bríxlin, er Jesús leid á krossinum.**

Lagið: Jesús, sem ad oss frelsadi.

Þeir sem ad Kristí krossi senn, komu og fram hjá gengu, hristu med hádúng høfuden, honum til bríxlis fengu; heitord sín hefdi hann haldid litt, Herrans musteri' ad brjóta, á þremur døgum annad nýtt, efna med bygging fljóta.

2. Tveir lugu svoddan fals-menn fyrst, fyrir Caiphas's dómi, af því hafdi þad útborist, eptir fjølmennis rómi, þessi þó hafi heyrt og sjed, Herrans jardteiknir frídar, lýgin þeim betur gafst um ged, gengur svo enn til vídar.

3. Oldúngar landsins, fólkid flest, og flockur heidinn strídsmanna, Herrann vorn Jesúm hæddu mest, med Hofdíngjum Prestanna, søgdu: ef ertú Son Guds kjær, frá þig med krapti stydur, kom þá hér, svo ad sjáum vær, sjálfur af krossi nidur.

4. Hann, sá ed ødrum hefir hér, hjálpad og læknad marga, megnar nú ecki' ad sønnu sér, sjálfum úr neyd ad bjarga; svoddan hádyrdi, hróp og dár, hlaut þá Jesús ad lída, stód þad yfir um stundir þrjár, stutt var andláts ad bída.

5. Þá fram hjá Kristí krossi ní, kalsandi held eg gánga, sem ecki' af hjartans ást og trú, etska hans pínu stránga, heilagleik sínum hrósa frí, vid holdsins fýsn sig binda, sídan falla ørvænting í, eda forherdíng synda.

6. Ad þínum krossi, Kristí kjær! kém eg, sem einn framandi, géf þú mér leyfi' ad gánga nær, géd mitt styrki þinn andi, svo eg hugleidi hvad til kom, hádúng, brixl-ord og pínu, leidstú, manngædsku mildin fróm! mótt andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, sjálfs Guds mustert' ad heita, í skírninni' því eg þín ad naut, þad nam Guds andi veita, sídan hefir þad syndin mørg, sárlega gjørt ad brjóta, holds náttúran því elskar ørg, athæsid heimsins ljóta.

8. Á þremur døgum þar á mót, því hét eg mørgu sinni, medí[?]ydrún, trú og yf-

irbót, aptur þad bætast kynni; æ! hvad veitir slíkt ervidt hér, efnin og dug vill þverra, bríxlid, sem til var búid mér, bar því Jesús minn Herra.

9. Í velgengninni' eg hrósa hátt, hraustleika trúarinnar, í mótlætinu' hún bilar brádt, brest sinn og stórann hennar, enginn fullkominn á mér sjest, ávextir dygda sætur, bar því fyrir mig bríxlid vést, blessadur Jesús mætur.

10. Hjálpa lætst eg med heilnæm rád, hinum sem ílla breyta, sjálfs míns lýta þó síst sæ gád, svoddan má blindni heita; mér var þar stærsta minkun ad, mátti hádyrdum qvída, burtték nú Jesús bolid þad, bríxlin því vildi' hann lída.

11. Jesú! í þinn andláte, yfir þig bríxlin dundu, ad svo í fridi önd mín sé, á minni dauda-stundu; hádúng leidist þú af öllum einn, alla frá hádúng leystir, aldrei tapast sá nockur neinn, er nafn þitt uppá treystir.

12. Nær sem hreckvísra hádúng mý, hjartad mitt sárt vill stánga, undir þinn kross eg feginn flý, fram-hjá skal eigi gánga, þar stend eg kyrr, þó kals og spé,

qveiki mér heims óblída, uppá þig, Jesú! einn eg sje, allt vil eg med þér lída.

**13.** Fyrst þú varst hæddur, Herra! þá harma-qvol leidstú slíka, svo heidri þig nú hédan í frá, himnar og jerdin líka! allir Englar og oll heims-mind, undir þitt vald sig hnegi, og eg þar uppá aum mannkynd, Amen af hjarta segi.

## 39. Sálmur.

### Um Ræningjans ydran.

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

Annar ræninginn ræddi, sem refsad þad sinn var, Herrann vorn Jesúm hæddi, hann gaf þetta andsvar: ef þar von er til nockur, ad þú Guds Sonur sért, hjálpa þér og svo ockur, úr þessum naudum bert.

2. En hinn þar uppá gegndi: ecki hræðist þú Gud! hverjum straffs heiptin hegndi, hún var rétt forþénud; vid megum vel mediaka, verka betalíng þann, en þessi' er alls án saka; eptir þad sagdi hann:

3. Hugsa þú til mín, Herra! þá lcldur þú ríki þitt; ást Drottins ei nam

þverra, andsvar lét heyra sitt: sannlega eg þér segi, (sú er huggunin vís), þú skalt á þessum degi, mér þjóna í Paradís.

4. Sjá hér fyrst straffið synda, sála mín! hriggilegt, forherding hjartans blinda, þó holdið qvelijist frekt. Gefðu mér, Jesú góði! eg gegni vel birting þín, með trú og tára-flóði, og tjái þér brotin mín.

5. Ræníngjans yðrun eina, athugum líka með, hann gjörði játníng hreina, hatadi íllverk skéð, því sagði' hann væri að vonum, verdlaunin ránglætis, ávítun veitti honum, sem vildi' ei gæta þess.

6. Hann trúði': á himnaríki, hefði vor Jesús ráð, þó syndugra sýndist líki, svo treysti á hans náð, með blygðun og hreldum huga, Herrann sín minnast bað, ljúflega lét sér duga, loforð ef fengi það.

7. Hróp og hárevsti gjörðu, heiðnir og Júdar þar, kríngum krossinn á jörðu, með kals, brízl og háðúngar; svaraði' ei Son Guðs neinu, þó sjálfann það snerti hann, en syndugs manns orði einu, án dvalar gegna vann.

8. Sett mér fyrir sjónum skartar, sæll Jesú! gæðskan þín, þér géck heldur

til hjarta, hans neyd enn sjálfs þíns pín; sama hefir þú sinni, vid syndugar sképn-ur hér, því aldrei elsku þinni, aptur, minn Herra! fer.

9. Illvirkinn hafdi unnid, ódáda-verkin stærst, götu glæpanna runnid, greidt fram í daudann nærst; en Jesús ecki vildi, á þad neitt minnast nú, svo var mikil hans mildi; mín sál! þad hug-leid þú.

10. Enginn ørvænta skyldi, þó ydrast hafi seint, sem er Guds Sonar mildi, sé annars hjartad hreint, því hverki vid stad né stundir, stýlud er Drottins nád, allt fram andlátid undir, oss býdst hans hjálp-ar-rád.

11. En þú skalt ecki treysta, óvissri dauda-stund, né Guds med glæpum freista, gjørandi þér í lund: nádar-tíminn sé næsta, nógur høndum fyrer; slíkt er hættusemd hærsta; henni Gud fordi mér!

12. Svo margt eg syndgad hefi, sorg-in mig sturlar nú, ydrun Guds nád mér géfi, glóandi von og trú. Herra Jesú hjartkæri! hugsa þú til mín þá, daudur er daudinn nærri, og drag mig qvølum frá!

# 40. Sálmur.

Þriðja orð Krists á krossinum.

Lagið: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Uppá ræníngjans orð og bón, ansaði Guðs hinn kjæri Son: Þú skalt, sannlega segi' eg hér, sælu-víst hafa í dag með mér.

2. Sjáðu með gætni, sál mín kjær! sönn yðran hverju kraptað fær, uppá það dæmið er hér rétt, öllum til lærdóms fyrisett.

3. Reiði Drottins þá uppegnd er, yfir ránglæti mannsins hér, yðranin blíðkar aptur Guð, et verður syndin tilreiknuð.

4. Þó komi hostug hefndin bráð, hrein yðran jafnan finnur náð, midt í standandi straffi því, stillist Guðs reiði uppá ný.

5. Samvitsku orma sárin vest, sönn yðran jafnan græðir best, hugsvalar sál og huggar geð, heilaga Engla gleður með.

6. Bæn af yðrandi hjarta hír, hún er fyrir Guði metin dýr, Herranu Jesús á hverri tíð, henni gaf jafnan andsvör blíð.

7. Sem Móíses með sínum staf, sætt vatn dró fordum steini af, eins fær yðr-

andi andvarp heitt, út af Guds hjarta miskun leidt.

8. Játníng mín er sú, Jesú minn! jeg er, sem þessi ræníngiun, já, engu betri fyrir augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kém eg nú þínum krossi ad, kannast þú, Jesú minn! vid þad, syndanna þúngi þjakar mér, þreyttur eg nú ad mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré, út þínar hendur breidande, sárin og blódid signad þitt, sjer nú og skodar hjartad mitt.

11. Þar vid huggar mín sála sig, svoddan allt leidsti fyrir mig, þíns hjarta-dreira heilög lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnuminn qvölum frá, Kóngur ríkir þú himnum á; Herra! þegar mig hrellir pín, hugsadu' í þinni dýrd til mín.

13. Segdú hvern morgun svo vid mig, sæti Jesú! þess beid' eg þig: í dag þitt hold í heima er, hjartad skal vera þó hjá mér.

14. Í dag (hvern morgun eg svo bid), aldrei lát mig þig skiljast vid, hugur, sinni

og hjartad mitt, hugsi og stundi' á ríkid þitt.

15. Eins þá kémur mín andláts-tíd, ordin lát mig þáu heyra blíd: í dag (segt:í) skal sálin þín, sannlega koma í dýrd til mín.

16. Herra minn! þú varst hulinn Gud, þá hædni leidst og krossins naud, þó hafdir þú med hærstri dád, á himnaríki vald og rád.

17. Daudanum mót mér djørfúng ný, daglega vex af ordi því, í dag, þá lídur ei lángt um þad, leidd verdur ønd í sælu stad.

18. O Jesú! séu ordin þín, andláts sídasta huggun mín, sál minni verdi sælan vís, med sjálfum þér í Paradís!

## 41. Sálmur.

### Þad fjórda ord Kristí á krossinum.

Lagid: Af djúpri hrígd ákalla' eg þig.

Um 'land gjørvallt vard yfrid mirkt, allt nær frá sjøttu stundu, sólin því ljóma sinn féck byrgt, senn til hinnar níundu:

Gud minn, (Jesús svo hrópar hátt), hvar fyrir gleymdir þú mér brádt? svoddan, mín sál! vel mundu.

2. Enginn skal hugsa' ad Herrann þá, hafi med efa' og brædi, hrópad þanninn og horfid frá, heilagri þolinmædi, syndanna krapt og qvalanna stærd, kynnir hann oss, svo verdi hrærd, hjørtun frá hreckja' ædi.

3. Sólin blygdast ad skína skjær, þá Skapara sinn sá lída, hún hafdi ei skuld, (þad vitum vær), þess voda meinsins sírída; ó! hvad skyldi þá skammast sín, sképnan, sem Drottni jók þá pín, med hrigd og hjartans qvída.

4. Avi! hvad má eg aumur þræll, ángradur nidur drjúpa, þá eg heyri, minn Herra sæll! sú harma bylgjan djúpa, géck yfir þig, þá galdstú mín; gjarnan vil eg ad fótum þín, feginn fram flatur krjúpa.

5. J ytstu myrkrum um eilífd er, óp og gnýstran tannanna, hefndar-straff þad var maklegt mér, fyrir margfjøldann glæpanna; frá því, Jesú! þú frelstir mig, frekt gengu mirkrin yfir þig, svo skyldi' eg þá qvøl ei kanna.

6. Í svörtu mirkri þad sama finn, sorgar-raust létstú hljóma, þá hrópadir þú mig, Herra! inn, í himneskann dýrdar-ljóma; í því ljósi um eilíf ár, úthrópa skal mín raustin klár, lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs med, mirkrin svo opt mig pína, ad gløggt fær ecki sálin sjed, sælu geislana þína; Jesú, réttlætis sólin sæt, syrgjandi eg þad fyrir þér græt, harma-raust heyr þú mína!

8. Gud minn! segi eg gjarnan hér, geyst þó mig sorgin mædi, Jesú! eg læri' nú þad af þér, þad skulu mín úr-rædi, gjørvøll þá heimsins gledin dvín, Gud minn! eg hrópa vil til þín: Gud minn allt bøl mitt grædi!

9. Yfirgéfinn qvad Son Guds sig, þá særdi' hann qvølin megna; yfirgéfur því aldrei mig, eilífur Gud hans vegna, fyrir þá Herrans hrigdar-raust, hærstur Drottinn mun efalaust, grátbeidni minni gégna.

10. Þá sólarbirtunni' eg sviptur er, sjón og heyrn tekur ad dvína, raust og málfæri mínkar mér, mirkur daudans sig sýna, í minni þér, Drottinn sæll! þá sé, Sonar

þíns hróp á krossins tré, leið sál til lífsins mína!

## 42. Sálmur.

### Fimta orð Kristí á krossinum.

Lagið: Eins og sitt barn, faðir ástargjarn.

I sárri neyð, sem Jesús leið, sagði hann gløggt: mig þyrstir. Svo Ritníng hrein, í hverri grein, uppfyllist ein; um það mig ræða lystir.

2. Strax hljóp einn að, þá heyrði það, hitta njarðarvøtt kunni, lét á reir-prik, dreif í edik, með íllt tilvik; og bar Jesú að munni.

3. Forundrast má, mín sál! þar á, maðurinn hverr þess gætir, að hann sem ráð, hefir með dáð, á himni' og láð, hermíng þvílíkri mætir.

4. Hann sá sem vín, af valdi sín, úr vatni sætt tilreiddi, með sorgar-skick, fékk súrt edik, fyrir svala-dryck, þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því mundi' ei hér, til hlífðar sér, Herrann edikið líka, sem vín ágjætt, gjøra

vel sætt, fyrst gat það bætt, hans Guð-dóms maktin ríka?

6. Komin var tíð, krapta-verk fríð, Kristur ei gjøra skyldi, hin stundin þá, fyrir hendi lá, hrigð, qvöl og þrá, Herrann vor líða vildi.

7. Krapta-verk hrein, kénndu þá grein, að Kristur Guðs Son væri, en qvølin hans, sýndi til sanns, að syndugs manns, sektir og gjøld hann bæri.

8. Guðs einka Son, gjørðist vor þjón, þá græddi hann mein og qvíða, offurlamb best, hann ordinn sjest, fyrir utan brest, í því hann qvöl nam líða.

9. Af stríði því, sem stóð hann í, styrk-leiki manns náttúru, þreytast mjøg vann, því þyrsti hann, þáði vøkvann, þó af ediki súru.

10. Í annann stað, merk, maður! það, og minnst þess hverju sinni; að Herrann Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhjálp þinni,

11. Ó maður! nú, þenk þar um þú, þinn hugur blygðast skyldi: Guð þyrsti hér, að hjálpa þér, en hjartað þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín! talar til þín, trygða brúdguminn gódi: þyrstur eg er, í hrigdum hér, svo hjálpi' eg þér, úr hættu qvalanna flódi.

13. Ber honum síst, þess bid eg víst, beiskann dryck hræsnis anda, ordin hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbrjálud láttu standa.

14. Uppá ord þín, svarar sál mín, sorgin þó málid heptir: þyrst er eg nú, og þad veitstú, þýdi Jesú! þinni miskunsemd eptir.

15. Ecki' er hjá mér, þad þyrstum þér, þori' eg nú fram ad bjóda, nema fá tár, trú-veik, þó klár, sem til þín stár, tak þad og vird til góda.

16. Lof, dýrd sé þér, launsn féckstú mér, og létst þig svo miklu kosta, hjartad á ný, huggast af því, ad eg er frí, frá eilífum qvala þorsta.

## 43. Sálmur.

### Sjötta ord Kristí á krossinum.

Lagid: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Eptir ad þetta allt var skéd, edikíd Jesus smacka réd, þrótt og lífskrapta þverra

fann, Það er fullkomnað sagði hann.

2. Orð þíns Herra með ást og trú, athuga skyldir, sál mín! þú, ef þeirra grundvöll sannann sjer, sæta huggun þau géfa þér.

3. Fyrst skaltú vita' að Guð útgaf, greinilegt lögmál himnum af, hann vill að skuli heimi í, hverr maður lifa eptir því.

4. Algjört réttlæti ljóst og leynt, líkama, sál og géðið hreint, syndalaus orð og atvik með, af oss lögmálið heimta réð.

5. Hugurinn vor og hjartað sé, í hreinni elsku rétt brennande, fyrir utan hræsni, bræði' og bann, bæði við Guð og ná-úngann.

6. Hverr þetta gæti haldið rétt, honum var lífið fyrirsett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæmíng við því lá.

7. Enginn maður frá Adam fyrst, eptir þann dag hann syndgaðist, fullnægju gat því gjört til sanns, gengur það lángt yfir eðli manns.

8. Obærileg var allra sekt, eptir því Drottinn géck svo frekt, annaðhvert skyldi uppfyllt það, eða mannkynið fortapað.

**9.** Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jördu á, hædum himna upprunninn af, undir lögmálid sig hann gaf.

**10.** Viljuglega í vorn stad géck, var sú framqvæmdin Gudi þeck, födurnum hlýdni fyrir oss galdt, fullkomnadi svo lögmál allt.

**11.** En svo ad synda sektin skéd, sannlega yrdi forlíkt med, og bölvan lögmáls burtu mád, beiska qvöl leid og daudans hád.

**12.** Þá hann nú hafdi allt uppfyllt, sem oss var sjálfum ad gjöra skyldt, og bæta öll vor brotin frí, berlega vildi hann lýsa því.

**13.** Þess vegna Herrann hrópa nam, hartnær á krossi stíginn fram, ad oss í voru andláte, öll hans verdskuldan huggun sé.

**14.** Svoddan adgæt þú, sála mín! Sonur Guds hrópar nú til þín, hvad þér til frelsis þéna kann: þad er fullkomnad! segir hann.

**15.** Fullkomnad lögmál fyrir þig er, fullkomnad gjald til lausnar þér, full-

komnad allt þad fyrir er spád, fullkomna skalt þú eignast nád.

16. Herra Jesú! eg þacka þér, þvílíka huggun gafstú mér, ófullkomleika allann minn, umbæti Guddóms kraptur þinn.

17. Hjálpa þú mér svo hjartad mitt, hugsi jafnan um dæmid þitt, og haldist hér í heimi nú, vid hreina samvitsku' og rétta trú.

18. Uppá þessi þín ordin traust, óhræddur dey eg qvídalaust, því sú frelsis fullkomnan þín, forlíkad hefir brotin mín.

## 44. Sálmur.

### Sjøunda ordid Kristí á krossinum.

Lagid: Herra Gud. í himnaríki.

Hrópadi Jesús hátt í stad, holds megn og kraptur dvínar: eg fel minn anda, Frelsarinn qvad, Fadir í hendur þínar.

2. Þú, kristinn madur! þenk uppá, þíns Herra beiskann dauda, ad ordum hans og einninn gá, eru þau lækníng nauda.

3. Jesús haldinn í hærstri qvøl, hladinn með eymdir allar, dapurt þá adgéck dauðans bøl, Drottinn sinn Fodur kallar.

4. Herrann vill kénna þar með þér, þín ef mann-raunir freista, gódlyndur Fadir Gud þinn er, gjørir þú honum að treysta.

5. Fyrir Jesúm þá fullvel mátt, fødur þinn Drottinn kalla, en þó þig krossinn þvíngi þrátt, það mýkir hørmúng alla.

6. Eins og fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid sjúka, svo vill Gud einninn annast þig, og að þér í miskun hjúkra.

7. Einninn sýna þér ord hans klár, ódandleik sálarinnar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, krenkist ei lifid hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvíldar-stad, Herrann sýnir þér líka, hønd Guds þíns Fødurs heitir þad; hugsa um rædu slíka.

9. Viljir þú eptir endað líf, egi þín sál þar heima, undir hønd Drottins hér þá blíf, hans bodord skaltú geyma.

10. Láttú Guds hønd þig leida hér, lífs-reglu haldt þá bestu, blessad ord hans

sem bodast þér, í brjósti' og hjarta festu.

11. Hrind þú ei frá þér Herrans hönd, hún þó þig typta vildi, legg heldur bæði líf og önd, ljúflega' á Drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hjálpin dvín, holdið þó qveini og sýti, uppá hönd Drottins augum þín, ætíð í trúnni líti.

13. Að morgni' og qvöldi minnst þess vel, máls upptekt láttu þína: af hjarta' eg þér á hendur fel, Herra Guð! sálu mína.

14. Svo máttú vera viss uppá, vilji þér dauðinn granda, sála þín mætir miskun þá, millum Guðs Föðurs handa.

15. Hún finnur eckért hrigðar-stríð, hörmúng né mæðu neina, í friði skoðar ætíð blíð, ásjónu Drottins hreina.

16. Eptirtekt mér það einninn jók, er eg þess gæta kunni: andláts bæn sína sjálfur tók, Son Guðs af Davíðs munni.

17. Bæn þína aldrei bygðu fast, á brjóst-vit náttúru þinnar, í Guðs orði skal hún grundvallast, það gèfur styrk trúar-innar.

18. Vér vitum ei hvers biðja ber, blindleikinn holds því veldur, Guðs orð sýnir þann sannleik þér, sæll er sá þar við heldur.

19. Vertú, Guð Faðir! faðir minn, í Frelsarans Jesú nafni, hönd þín leiði mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

20. Höndin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg aðstoð missi, en nær sem þú mig hyrtir hér, hönd þína' eg glaður kyssi.

21. Dauðans stríð af þín heilög hönd, hjálpi mér vel að þreja, meðtak þá, Faðir! mína önd, mun eg svo glaður deya.

22. Minn Jesú! andláts orðið þitt, í mínu hjarta' eg geymi, sé það og líka síðast mitt, þá sofna' eg burt úr heimi.

## 45. Sálmur.

### Um Jesú dauða.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Þí Frelsarinn í Föðurs hönd, fól nú blessaður sína önd, niður sitt höfuð hneigði fyrst, Herrann í því hann skáldist. Drottinn vor þanninn dó á tré, dásemd kunni ei meiri ské.

2. Sancti Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé daudinn laun, bana-spjót hans eru brotin ljót, bodordum Drottins gjerd á mót, sá skal deyja, sem syndgar hér, svoddan úrskurdur réttur er.

3. En þad hér heima átti síst, af því Jesús er saklaus víst, af helgum Anda' med hreinum sid, hann var gétinn í mey-jar-qvid, Guds Fødurs veru fegurst mind, frjáls lifdi' og dó af allri synd.

4. Hverki refsíng né heljar bad, hafdi nú Jesús forskuldad, hvad kom þá til ad Herr-ann leid, harda pínu og beiskann deyd? eda hvør fyrir hyrtist hann, hegníngar til sem aldrei vann?

5. Guds Andi þar á gjørir skil, greinir þvílíka orsøk til; vegna misgjørda vorra hér, vissulega hann særdur er, því Drott-inn lagdi svo fyrir sann, syndirnar vorar uppá hann.

6. Sjá hér, mín sál! fyrir syndir þín, Son-ur Guds lídur qvøl og pín, hann dó fyrir þig, sem daudans bad, dárlega hafdir for-skuldad, hann lét sitt líf svo lifdir þú, lífs eilífs von því áttú nú.

7. Á mig var fallin þýngsta þraut, þvíað eg Drottins lögmál braut, samvitsku særdi syndа gráð, svo fékk dauðinn sterk yfir-ráð, til fordæmíngar mér fjöturin hans, fastlega héldu víst til sanns.

8. Lögmál safnaði sektum mér, sektinni dauðinn eptir fer, dauðinn til dómsins dregur snar, dómurinn straffið úrskurðar, straffið um eilífð aldrei dvín, eilíf því var hin þýngsta pín.

9. Lögmálið hér sig forgreip fyrst, feldi það dóm yfir Herrann Krist, það bauð: að sá bölvaður sé, sem bana líður á einu tré, djarflega eptir því dauðinn gékk, Drottinn frá lífi skilið fékk.

10. Sekt þá, sem lögmál setti mér, sjálfur borgaði Jesús hér, það misti sína makt í því, mig verður nú að láta frí, dauðans broddur var brotinn þá, burt hans fángelsi slapp eg frá.

11. Eilífur dauði deyddur er, dauði Jesú það vinnur hér, dýrt metur Drottinn dauða minn, dauði! hvar er nú broddur þinn? dauðinn til lífs nú stutt er stig, stórlega dauðinn batar mig.

12. Dauðinn því orkar einn til samns, útslokna hlýtur lífið manns, holdið legst í sinn hvíldar-stað, hans makt nær ecki leugra' enn það, sálin af öllu fári frí, flutt verdur himna sælu í.

13. Í þínum dauda, ó Jesú! er mín lífgjöf og huggun trú, dásemdar kraptur dauda þíns, dreifist nú inn til hjarta míns, uppá það synd og íllskan þver, út af deyji í brjósti mér.

14. Þú hneigdir þínu höfdi ljóst, Herra! þegar á krossi dóst, med því bendtir þú mér það sinn, ad minnast jafnan á dauda þinn; eins þá eg dey, skulu augun mín, upp líta, Drottinn sæll! til þín.

15. Fyrir þann deyd, sem þoldir þú, þig bid eg, Jesú! um það nú, ad gésí mér þín gædskan blíd, góda kristins manns dauda tíd, hold mitt lát hvílast hægt med frid, hönd þín sálunni taki vid!

## 46. Sálmur.

### Um teiknin sem urdu vid Kristi dauda.

Lagid: Þá linnir þessi líkams vist.

Þegar Kristur á krossins tré, kannadi daudann strída, teikn og stórmerki mestu

skė, mælir svo Ritníng fríða, musteris tjaldið mjøg umvendt, í miðju varð að rysna í tvennt, hristist jørð harla víða.

2. Sundur klofnuðu bjørgin blá, byrgð leiðin opnast fóru, líkhamir dauðra lífna þá, lít hér þau undurin stóru, eptir Lausnarans upprisu, inní borgina vitjuðu, af sumum þar sjenir vóru.

3. Hvað hér historían hermir rétt, hygg að því, sál mín mæta! þér til lærdóms er það framsett, þess áttú vel að gæta, jørðin skalf þegar Jesús dó, jafnvel þeir hørðu klettar þó, sýndu meðaumkun sæta.

4. Steini harðara' er hjartað það, sem heyrir um Jesú pínu, gésur sig þar þó ecki að, ann meir gjáiísi sínu; kann nockuð svoddan kaldt hugskot, Kristí dauða að girnast not? Guð stjórni geði mínu!

5. Það má undra hin þúnga jørð, þreydi ei kyrru' að halda, blágrýtis einnin bjørgin hørð, bresti liðu margfalda, holdið þó ei né hjartað manns, hriggist við pínu Skaparans, sem hans þó hlaut að gjalda.

6. Fortjaldid sýnir sannleik þann, sundur þá ryfna nádi, aftakast skyldi øll fyrir sann, eptir Guds settu rádi, Gydíngakynsins kóngleg stjórn, Kénnivaldid og løgmá í fórn, en Ritníng sjálf um spádi.

7. Hindran réd øllum ætíd stór, inn í Guds ríki banna, því veldur synda sektin vor, og saurugleikinn verkanna; en fyrir Jesú dýrstann deyd, Drottinn tilbjó oss opna leid, hédan upp til himnanna.

8. Hér í kristninnar helgidóm, høfum vér frelsi' ad gánga, þar bodast nád og blessan fróm, burt er þá sorgin stránga, sálin vor hefir búna braut, beint í Abrahams gledi-skaut, eptir heims hørmúng lánga.

9. Frelsarans dauda einninn ad, øndud líkin hér njóta, gudlegur kraptur gjørdi þad, grafirnar opnast hljóta, því Drottins Jesú daudi' á kross, daudann sigradi fyrir oss, abl hans og brodd nam brjóta.

10. Merk, ad úr jørdu mátti' ei neinn, madur frá dauda standa, fyrr enn tjedi vor Herra hreinn, hold sitt aptur lifanda, fyrstur allra því uppreis hann, af eginn krapti', og þar med sann, endarlausa oss til handa.

11. Höfdínginn krossi Herrans hjá, hér með allt fólkid líka, jafnsnart, sem þetta jardteikn sjá, játníng þeir gjørdu slíka: sannlega hefir saklaus hann, og Son Guds verid þessi mann, brjóst slá og brádt heim víkja.

12. Fólkid, sem harda krossins qvel, Kristi fyrr óska nádi, fann nú hid þýngsta' í brjósti bøl, beiskleg samvitskan þjádi; ofhastarlegann úrskurd flý, ef þú 'vilt vera' af sorgum frí, hætt er rasanda rádi.

13. Daudi þinn, Jesú Drottinn! þá, dýrdlegann krapt útsendi, heidnum manni svo hér vid brá, hann þig Guds Son medkénndi. Eg bid gædskunnar gédid þitt, gef þú vidlifni hjartad mitt, ad svo frá illu vendi!

## 47. Sálmur.

### Um Kristi kunníngja,

Lagid: O Jesú! elsku hreinn.

Kunníngjar Kristí þá, krossinum lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi sjá.

2. Var þar og vidstadt med, ad vísu margt qvennfólked, sár Jesú fengu sjed, sorgandi báru géd.

3. Af þessu, mín sál! þú sjer, sannlega hverfu er, valt allt í heimi hér, haf slíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregst í hlé, á dauða-stundunne, vinskapur, frændur, fé, fallvalt hygg eg það sé.

5. Þó vildu vinirner, veita hjálp nockra þér, vorn þeirra ónýt er, enginn daudan-um ver.

6. Lífinu hjúkrar hönd, þá herdir sótt-argrönd, hjálpa þó engin önd, upphugsud rádin vönd.

7. Vinskap í synda síd, sála mín! þess eg bid, haldtu ei veröld vid, viljir þú sofna' í frid.

8. Hreinann vinskap haldt þú, vid Herra þinn Jesúm nú, í hreinni hjartans trú, frá heimsins elsku þér snú.

9. Hann einn má hjálpa þér, þá hjástod mannleg þver, heim þig á höndum sér; í himna sælu ber.

10. Það hér í sannleik sjest, er Sonur Guds andadest, sorgin þá særdi mest, sem hann elskudu best.

11. Kriſts born eru kroſs = børn, vid Kriſtum hlýdnis = gjørn, hann ſýnir þeim hjálp og vørn, þó hørd ſé ſútar qvørn.

12. Þú ſkyldir þar ad gá, Þó þeir ſtædu lángt frá, allir ſamhuga ſjá, Son Guds kroſs feſtann á.

13. Komid ſvo konur og menn, ad kroſsinum Jeſú ſenn, þó naudin þreyngi þrenn, þar fæſt nóg lækníngen.

14. Kom þú, ſál kriſtin! hér, ſem kroſs og mannraunir ber, ſettu fyrir ſjónir þér, Son Guds, ſem píndur er.

15. Uppá hans heiløg ſár, horfi þín trúin klár, þad mýkir trega' og tár, tempr= ar allt ſorgar = fár.

16. Sértú, ſyndugur mann! ſærdur um hyggju = rann, horf þú beint uppá hann, ſem hjálp þér á kroſsi fann.

17. Hverr, ſem eyr = orminn leit, af Jſraels manna ſveit, eitrid ei á þann beit, øll ſtilltiſt plágan heit.

18. Svo ſlór ſynd eingin er, ad megi granda þér, ef þú á Jeſúm ſjer, ydrandi' í trúnni hér.

19. Sje eg þig, sæll Jesú! svo sem álengdar nú, von mína' og veika trú, við bið eg hressir þú.

20. Þá eg sje sárin mín, særir mig hjartans pín, sárin þá sje eg þín, sorg öll og qvíði dvín.

21. Lát mig, ó Jesú kjær! aldrei svo vera þér fjær, að sjái' eg ei sár þín skjær, þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér eg verði' og sé, vin þinn og kunnínge, þó hverfi heilsa og fé, hjálp mun þá nóg í tje.

23. Eg fel í sérhvert sinn, sál og líkama minn, í vald og vinskap þinn, vernd og skjól þar eg finn.

## 48. Sálmur.

### Um Kristi síðu sár.

Lagið: Uppá fjallið Jesús vendi.

Að qvöldi Júdar frá eg færi, til fundar senn við Pílatum, og þess beiddu' að ecki væri, öndnd lík á krossinum, því hátíðin var harla nærri; hér svo Ritníng greinir um.

2. Strídsmönnum hann baud ad brjóta, beinin þeirra' og svo var gért, heljar stund þeir hrepptu fljóta, hinir tveir, sem greini eg bert, en Jesúm létu síns lífláts njóta, limina hans ei fengu snert.

3. Strídsmann einn med heiptar hóti, hardlyndur géck krossi ad, Lausnarans sídu lagdi spjóti, lagid nam í hjarta stad, blód og vatn þar frá eg út fljóti, fyrr var ádur spád um þad.

4. Umhugad er einum Drottni, allra sinna barna lík, í jördu hér þótt holdid rotni, huggun traust mig gledur slík, hann vill ei týnist bein né brotni; blessud sé sú elskan rík!

5. Gud Drottinn med gædsku rádi, gjördi Adams sídu af, frída qvinnu fyrst á ládi, fast hann þó á medan svaf, vaknadur þess ad vísu gádi, og veglegt henni nafnid gaf.

6. Sofnadur á sinni sídu, sárid Drottinn Jesús bar, svo ad af vatni' og blódi' hans blídu, bygdist heilög kristnin þar, nádi' hún edla nafni frídu, nær til himna stigin var.

7. Skoða þú hvernig skírnin hreina, skiljast nú með réttu á, að vísu jafnan vatnið eina, vor líkhamleg augun sjá, en trúar sjónin svo má greina, Sonar Guðs blóð þar lítur hjá.

8. Æ! hvað má eg sæiann sanna, Sancti Thómás Postula þinn, þá síðu mátti hann sár þitt kanna, sína hønd þar lagði inn! þú mant ei mér þjáðum banna, það að skoða, Jesú minn!

9. Allar Jesú æðar stóðu, opnaðar í qvølinne, dreyra lækir dundu' og flóðu, um Drottins líf á krossins tré, nægð af lausnar gjaldi góðu, Guðs Son fyrir mig lét í tje.

10. En svo eg skyldi sjá og játa, sanna elsku Drottins míns, vildi hann ecki læstar láta, lífs æðarnar hjarta síns, því er, sál mín! mikil úr máta, miskunsemi Lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar síðu, inn um gengu sképnurnar, sem sjálfur Drottinn bauð með blíðu, bjargast skyldu inni þar, fyrir vatnsins flóði stríðu, frelsi og líf þeim géfið var.

**12.** Líkfins dyr á síðu sinni, setur Jesús opnar hér, svo ángrud sála adsiod finni, oll þá mannleg hjálpin þver, hverr, sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauda leyst- ur er.

**13.** Nói um sinn arkar-glugga, upp til himins litid fékk, haldinn dymmum hrigdar- skugga, hátt þá vatnsins flódid gékk, svo hann mætti' um sídir hugga, sólar-ljóma birtan þeck.

**14.** Gégnum Jesú helgast hjarta, í himininn upp eg líta má, Guds míns ást- ar birtu bjarta, bædi fæ eg ad reyna' og siá, hrigdar-mirkrid sorgar svarta, sálu minni hverfur þá.

**15.** Guds var máttug mildin prúda, Móíses þá steinin sló, út til allra Ísra- els búda, ágætt svala-vatnid dró, hresti þyrsta, þjáda' og lúda, þeim svo nýja krapta bjó.

**16.** Þá sjálfur Gud á Sonarins hjarta, sínum reidi-sprota slær, um heimsins áttar alla parta, útrann svala-lindin skjær, sálin vid þann brunninn bjarta, blessun og nýja krapta fær.

17. Við þennann brunninn þyrstur dvel eg, þar mun eg nýa krapta fá, í þessi inn mig fylsuin fel eg, fargar engin sorg mér þá, sælann mig fyrir trúna tel eg, hún tekur svo Drottins benjum á.

18. Hjartað mitt er, Herrann góði! hriggilega saurgað mjøg, þvo þú það með þínu blóði, þess af auðmýkt beiði eg, vinni mér bót á mæðu' og móði, miskunsemin guðdómleg.

19. Hjartans innstu æðar mínar, elski, lofi, prísi þig, en hjarta-blóð og benjar þínar, blessi, hressi, græði mig; hjartans þýðar þakkir sínar, þér sé gæðskan eilíflig!

## 49. Sálmur.

### Um Kristi greftran.

Lagið: Nú látum oss líkhamann grafa.

Jóseph af Arimathía, eðalborinn Ráðherra sá, Gýðínga svik við Son Guðs skéð, samþykt hafði þeim aldrei með.

2. Hann var Lausnarans lærisveinn, lífernis frómur dygða hreinn, Gyðínga

hræddist heiptar raun, hélt sig ad Kristi þó á laun.

3. Þessi um qvøldid þángad géck, þá af Pilató leyfid feck, ad mætti Jesúm andadann, ofan taka og jarda hann.

4. Jóseph tók strax af krossi Krist, keipti þó nýann lín-dúk fyrst, Nicodemus kom þegar þar, þángad kostuleg smyrslin bar.

5. Jóseph grøf eina átti þar, út-kløppud sú í steini var, í aldingardi þar allskamt frá, enginn fyrr daudur í henni lá.

6. Dýrdlega smurdu Drottins lík, dæmin má ønnur finna slík, byrgdu med steini búna grøf, burt gengu strax fyrir utan tøf.

7. María Jacobs módir ein, Magdalena á sømu grein, Salóme einnin sat þar hjá, sáu vors Herra greftrun á.

8. Í þeirra selskap, sál mín blíd! settú þig nidur litla tíd, greftrun þíns Herra gæt vel ad, gagnlaust mun ecki verda þad.

9. Við Jesú greftrun jeg fæ sjeð, Jóseph og Nicódemus með; áður þorðu þeir ecki Kríst, opinberlega að játa fyrst.

10. Nú fá þeir nærsta nýjann dug, nóga djørfúng og styrkann hug, augljóslega svo allir sjá, elsku, sem Drottni høfðu á.

11. Rjúkandi trúar hørinn hér, helgur Andi svo viðnærer, ljómandi þar af ljósið skín, lífgar hann allt með krapti sín.

12. Huggist þeir nú, sem hjartað deigt, hafa og trúar megnið veikt, biðji um styrk og støðugt geð, stundi og læri Guðs orð með.

13. Veit þú, Jesú! að veik trú mín, vaxi daglega' og elskan þín, eblist svo með mér innvortes, ytra góð sjáist merki þess!

14. Annað þú líka merkja mátt, mislíkar Drottni' á engann hátt, þó heiðurleg sé hér á jørð, holdi útvaldra líkfør gjørð.

15. Mætast Guðs Anda musteri, manns var rétt = kristins líkami, því má honum veitast virðíng rétt, vel með stillíng og hófi sett.

**16.** Erfis-dryckjur og ónýtt þjál, ecki á skyldt vid þetta mál, Heidíngja sickinn heimskuleg, hæsir kristnum á engann veg.

**17.** Aetíd þá sjer þú sálad hold, sett vera nidur í jardar mold, hriggur þú vert og hugsa brádt, hér vid þú lika skilja átt.

**18.** Lagt þegar nidur likid sjer, láttú sem daudinn hvísli' ad þér, lángt máské ecki lídi' um þad, legg eg þig eins í slíkann stad.

**19.** Gódi Jesú! fyrir greftrun þín, gef þú sídasta útför mín, verdi farsæl og frid-som mér, frelsud sál nái dýrd hjá þér.

**20.** J þridja máta huggun hrein, hér veitist mér á alla grein; Guds Sonar hold því greftrad var, greftrun minni til virdíngar.

**21.** Helgum Guds børnum Herans hold, helgadi bædi jørd og mold; grøfin því er vort svéfn-hús sætt, svo má ei granda reidin hætt.

**22.** Svo ad lifa, eg sofni hægt, svo ad deyja, ad qvøl sé bægt, svo ad greftrast, sem Guds børn hér, gésdú, sætasti Jesú! mér.

## 50. Sálmur.

Um vardhalds menning.

Lagid: Eins og sitt barn, fadir ástargjarn.

Öldúngar Júda annars dags, inn til Pílatus's gengu strax, sögdu: Herra! vér höfum mest, í huga fest, hvad sá falsari herma létst.

2. Eptir þrjá daga (ódt fyrir sann), uppríssa mun eg sagdi hann; vid slíku' er best ad leita lags, lát geyma strax, þessa grøf inntil þridja dags.

3. Máské líkid med leyndum hljódt, lærisveinar hans taki' um nótt, og lýdnum segi þad lyga skin; þá lýtst ei kyn, þó verdi sú villan verri' enn hin.

4. Pílatus víst þeim vardhald féck, vaktin strax út af stadnum geck, grøfinni blífu Herrans hjá, og svo til sjá, settu innsigli steininn á.

5. Gydínga hørd var heiptin beisk, hjartans blindleiki' og villan treysk, þeim kunni' ei nægjast qvøl og bann, sem Kristur fann, líka daudann þeir lasta hann.

6. Fordast þú svoddan fíblsku grein, framlidins manns ad lasta bein, sá daudi

hefir sinn dóm med sér, hverr helst hann er, sem best haf gát á sjálfum þér.

7. Gydíngar vildu veita rírd, vors Lausnara upprisu dýrd, en Drottins vald og vísdóms rád, þess vel fékk gád, verk sitt framqvæmdi víst med dád.

8. Hefdi ei vaktin geymt og gætt, graf-arinnar, sem nú var rædt, orsök var meiri ad efast þá, hvert upp réd stá, Drottinn vor Jesús daudum frá.

9. En þeir sjálfir, og er þad víst, upp-risu Drottins hafa lýst, þó kénnimenn Júda' af kaldri stygd, qvaldir af blygd, keiptu þá til ad bera lygd.

10. Öll svikrád manna' og atvik íll, ónýtir Drottinn þá hann vill, hans rád um eilífd stodugt stár, og stjórnin klár, slægdin drambláta slétt forgár.

11. Hvíli' eg nú sídast huga minn, Herra Jesú! vid legstad þinn, nær sem eg gæti' ad greftrun þín, gledst sála mín, skélfíng og ótti daudans dvín.

12. Sektir mínar og syndir barst, sjálf-ur þegar þú pindur varst, uppá þad dóstú, Drottinn kjær! svo qvittudust þær, hjart-ad því nýjann fögnud fær.

13. Þú grófst þær niður í gröf með þér, gafst þitt réttlæti aptur mér, í hafsins djúp, sem fyrispáð finnst, þeim fleygðir innst, um eilífð verður ei á þær minnst.

14. Svo er nú syndin innsigluð, ydrandi sála qvitt við Guð, eilíft réttlæti uppbyrjað, í annann stað, trúuð manneskja þyggur það.

15. Dauði þinn, Jesú! deyði hér, dárlega holdsins girnd í mér, grøfin þín hylji glæpi mín, fyrir Guðs augsýn, efli mér styrk upprisan þín.

16. Stein-þró míns hjarta' úthøggvin sjest, heilagur Andi vann það best, líndúk trúar eg læt í tje, minn Lausnare! ylmandi smyrsl ydranin sé.

17. Svo sumi' eg hæga hvíld í þér, hvíl þú, Jesú! í brjósti mér, innsigli' heilagur Andi nú, með ást og trú, hjartað mitt, svo þar hvílist þú.

18. Dýrð, vald, virðíng og vegsemd hærst, vitska, makt, speki' og lofgjörð stærst, sé þér, ó Jesú, Herra hár! og heiður klár, Amen! Amen! um eilíf ár!



## Prír adrir
# Píslar-Sálmar,

qvednir af ødrum.

## I.

Lagid: Sæti Jesú! sjá oss hér.

Daudans þúngu kramin qvøl, á krossi hángir Jesús blídur. Frelsarinn, svo brædra bøl, bætti þjakast písla hrídum. Eilíf gædskan út hann géfur, ansa qveinstaf Sonar tefur

2. Æ! hans hjarta sáru sorg! sérhvers vinar huggun sneyddur, leid hann fyrir allra ørg, afbrot, smádur vard og deyddur. Harma skál hann hlaut afdrecka, hann svo fengi' oss Gudi þecka.

3. Hverr fær qvøl íhugad þá, svo hjarta vikna þess ei mætti, og þó lída sekann sjá, synda þúngu refsíng ætti; en, hár lídur heilagleiki; hjartad klockni, raustin veikist!

4. Hann leid fyrir heimsins synd, háðúng, undir, bønd, qvalræði. Hann, sannnefndur lífsins lind, létst á tré við dauðans mæði. Fús hann dó og fól sinn anda, Føðurs, hlýðinn, geymslu handa.

5. Góði Jesú! géf að mér, gleymist síst sú elskan megna, er saklausum þrýsti þér, þetta' að líða minna vegna! minníng krossins qvalar þinnar, kostnað votti lausnar minnar!

6. Géf eg mína gráti synd, géf eg meður varúð fagni, friði' og sæld; þín sorgarmind, sí-áminni best hvað gagni! eg varð keyptur; æru' og sóma, allt skal mannkyn Jesú róma!

7. Virðstú' af náð mér liðsemd ljá, að líkjast þér og fylgja hraður, þér, sem létst mig lífi ná, lifa trúr og deya glaður! þátt þig prísa' um heiminn víðann, heiðra nær eg dey og síðan!

8. Það, Frelsari! vonar víst, vonar æ þinn endurleysti. Þú óvirðir, veika síst, von, sem styrkja þér eg treysti; þegar

fjør í dauda dvínar, Drottinn! medtak sálu mína!

## II.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Réttláti Gud! ransaka mig, reyn hjarta mitt, eg kém fyrir þig; sjá! hvert eg heils er hugar, þá hugsa' um þína hjartans qvøl, heitustu ást og písla bøl, sút mína sálu bugar; Herra! þín písl mín heilsa sé! hvílík miskunar stórmerke, virdtist þú verøld sýna! hvenær hef' eg nóg hugleidt þad? hvenær best, sem gat vegsamad, af allri sál elsku þína?

2. Fridar = høfdíngi, hetja, rád, hins Hæsta kraptur, af Guds nád, herklæddist holdi' og blódi; heims synda = fórn svo ordinn ert, á sál flecklausri lídur snert, af eilífra eymda flódi; þinn vinur sá þig sveik, er nær, sorg og ángist þitt hjarta slær, tekst upp Guds reidi tími, þér hugfellst, písl þig helvítsk skér: hjartans Fadir! ef møgulegt er, bikar sá burtu rými.

3. Sárheitt blóð verður sveiti þinn, þú sár-þjakast og máttfarinn, til jarðar þér flötum fleygir; þú, Son hins Hæsta! bljúgur berst, þín bæn af-ofraun þá þú skérst, ítrekuð heyrist eigi. Af Guði' í stríði styrktur þú, til straffs endalauss sannstú nú; eilífðar ógn þig hrædir, sekt manna hlóðst þig sjálfur á, í syndugra hendur gafst þig þá, guðlegu með þol-gædi.

4. Þú, Guðs réttláti' og sanni Son! sjálfur barst íllvirkjanna laun, saklaus og sannheilagur, svo var það fyrri fyrispáð, framkom nú Drottins hjálpar-ráð, vor friðar- og frelsis-dagur! íllþýðið þyrsti í þitt blóð, offann þín guðdóms dygð afstóð, svo frelsast sálir kynnu; jeg þinn morðíngja játa mig, Jesú! því allra synd á þig, hlóð Guð, svo frið vér finnum.

5. Allt til þræls mindar auðvirðist, en guddóms dygða-skarti lýst, æ er þitt ástar-hjarta; þolir svo hatur, háð og smán, hörmúngum, eymdum fullur, rán,

matst ecki mind Guds bjarta; þig, sem Gud hét oss, sáum vér, samt eckért er oss lýsti' á þér, ei mind né fegurd fríða, fyrir þér, ó Gud! athvarf mitt! andlit þeir jafnvel byrgja sitt, sáttmáls børn sjálf þig níða.

6. Offur það, sem Guds eilíft ráð, á-lyktad hafði, hvert hans náð, hlód med harmqvælum vorum, fyrir misgjørdir fólks-ins þíns, fyrir. sekt brotlegs mannakyns, qvalrædum kramimn sárum; í sakleysi þínu þegjande, þreytir þú veg ad krossins tré, sem lamb það sláturs bídur; fús, líkt sem hetja hugprúdust, hels neyd, sem oss var makleguft, af ást til vor aumra lídur.

7. Eg mátti telja mín øll bein, mín-ar hendur þeir hafa med flein, og fæt-ur gégnum grafid; feitir umkríngdu uxar mig; ómildra hópur gladdi sig, sína vild sjed ad hafi; eg hrópa, en min hjálp er fjær, þeir hæda mig, sé hann Gudi kjær, hann klagi, hjálp mun kanna! madkur eg, ecki madur er nú, mig í

daudans dupt leggur þú, spott lýdsins, spé mannanna.

8. Bráð qvalaranna eg ordinn er, eg hrópa, þú ei svarar mér; mig yfirgéfa allir; þjøkudum, sár þá þorstinn var, þeir rétta mér til svølunar, beiskt edik blandad galli; sem vax mitt hjarta' er sundursmelt, svo sem vatni er mér úthellt, mín ángist er þeim gledi: því yfirgafstú þjóninn þinn, þraut-mæddann, ó Gud minn! Gud minn! af sálar súru erfidi.

9. Þú hnegir nidur høfdi þín, hrópar: fullkomna borgun mín, þú deyr, jørd dopur titrar; erfidi hef' eg aukid þér, ó Drottinn! skélfdann hug eg ber, um písl þína þenki bitra; hvad er eg, frelsi ad fékkstú mér? æ! fengi' eg heitast þackad þér, sjá Drottinn! vægd mér sekum; þín hjartans ást skal hvetja mig, ad hlýdnast þér, svo aldrei þig, særi med syndum frekum.

10. O! hvílík písla eilífra, eptirbíd mun þeim tortýna, sem forsmá forþénun þína; þeim sem ei stunda' í sannri trú, senda ást-

gjöf að þeckjast nú, til þýngra dóms þíns er pína; synda-þjónum er sífeldt þig, með syndum smána', en játa sig, forþénun þinni treysta; hverr orð þín smáir elskar síst, hverr ei þig elskar dæmist víst, qvöl þín hann kann ei hreysta.

II. Þú hefir heitið hjástoð mér, til helgunar svo eg í þér, ávöxt stadfastur færi; þín heiløg písl mig huggar ein, hvenær sem synda banvænt mein, samvitsku hrædda særir; gjør mig brennandi' í bæn og trú, bind mig í elsku við þig nú, þitt dæmi gef eg geymi; veri þín qvøl mín vørn í neyð, í velgengni stoð, hlíf í deyð, og huggun efsta' í heimi.

## III.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

O minn Jesú! øll þín pína, alla sefar hrigð og neyð, huggast eg, þá hørmúng þína, hugsa um og beiskann deyð; til lausnar allt því leiðstu mér, lát mig aldrei

gleyma þér! þér, sem synda-sekt barst mína, saklausann þá létst þig pína.

2. Ef mér flýgur synd í sinni, svikult mín ef freistar hold, þú æ sért mér þá í minni, þar við krossinn stóðst á fold, hæddur, qvalinn, hatadur, huggun vina ørsneyddur, fjøtur synda' eg sæ þá slitið, og fullur viknun til þín litið.

3. Heims ef lyst mig glisleg ginnir, glæpa fram á' breidann veg, gjálífis ad glaum' eg sinni, géðhraustur, nei, segi eg; heims lyst Jesúm hengdi' á tréð; hins réttláta qvaldi géð, burt holds lyst úr brjósti mínu, bjó hún Lausnaranum þínu.

4. Ef mér ógnar ótti' og mæða, eg þá Jesú! med þér líð, mig þau ecki megna' ad hræda, minnist eg þitt dauða stríð, þitt mér kenndi þolugt géð, þolinmædi' ad sigra med; æ! eg vil þér eptir feta, ebl mig bædi' ad vilja' og geta.

5. Og þó hel á fund minn fari, full-øruggur samt er eg; þú, mín vernd og minn Lausnari, máttir gánga sama veg; og.

þú vegsemd ávannst þér, en fékkst stad tilbúid mér, í þíns Födurs fridar ríki, finnst þar eckért böl né sýki.

6. Jesú! sál opt minntú mína, ad minna vegna blód þitt rann, kross þinn, daudi, qvöl og pína, qvittun synda' og lausn mér vann; þá skal öll mín æfistund, offrud þér; en helst vid blund, þig mitt andvarp effta prísa, upp til dýrdar holdid rísa.

